# Stutt Agrip
um
# Iektsyke
Edur
# Lidaveike,
Hvar inne hun er wtmalud, med
fleirstum sijnum Tegundum;
Þar i eru løgd Raad, hvørsu hun
verde hindrud og læknud.

Samannteked af
**Jone Peturs Syne,**
Chirurgo i Nordurlande.

FRACASTORIUS.
Qvi viret in foliis, venit ab radicibus humor,
Sic patrum in natos abeunt cum ſemine
morbi.

Selst innbunded a Skrif-Pappyr 6. Fiskum;
Enn a Prent-Pappyr 5. Fiskum.

Þrentad a Hoolumi Hialtadal,
Af Gudmunde Jons Syne,
1782.

# Verked lofar Meistarann!

Vo syner og Skrif þetta, Studiosi Monsr. Jons Peturs Sonar, ágiætann Lestur, Epterþanka og Hugvekiseme vid Landa vora, til, bæde ad koma i Veg fyrer, og leidretta Jæk-sykena; Hvar fyrer Skrifed er aldeiles verdt ad publicerast.

Censui Nese D. 23 Decembr. 1774.

Biarne Pauls Son.



# Lecturis Salutem.

Ingenn Hlutur af jardnesk-um Giædum, er, ad minne Meiningu, so angiætur sem Heilbrygden, ann hvørrar Meñ sia ei Fullnustu giørt þeim Skyl-du-Verkum, sem nätturlegt Atgiørse og Almennings Gagnseme wtheimter; Enn þvi er midur, ad sæer fara so med Heilsuna, þennann Ometañlega Dijr-Grip, sem vera ber, og færre leggia Stund ä, ad koma i Veg fyrer wt-vortes og iñvortes Tilfelle, sem hana skada, og færster hafa Vit, Orku edur

Tijmu, ad koma henne hnignande edur spilltre til Hiaalpar, nema kannskie i Otijma, edur med þeim Medølum, sem annad tveggia eru Openannleg, edur og slijkum, er um̃ Stundarsaker deysa Tilfiñinguna, eñ afla þo hinum Veika epter aa meira Spillers, edur nijrra Siwkdooma.

Þetta hafa fyrer laungu framande Piooder adgiætt, og i eigeñ Twngumaale wtgefid aa Prent þvilijk Rit, sem bæde syna, hvørsu Menn kuñe vidhalda goodre Heilsu, lijka raada Boot aa imsum Siwkdoomum, med tilhlijdelegu Mataræde og Lækninga Medølum. Ei hefur oss vantad þa hier i Lande, sem stundum skraasett hafa eitt og annad, þessu vidvijkiande, er þeir samañteked hafa, añadhvert af eigeñ Reynslu, edur epter framande Lækninga Bookum, lijka lagdt Hønd aa Verked, med nakvæmre Gegnd, allmørgum til Bata; Eñ þad hefur oss vantad, ad slijk Rit yrdu pryckt i Moo-

dur-

durmaale, Albijdu til Gagnsmuna, nema þad litla uñ Bloodtøkur, etc. sem fiñst vid Rijm Biskups Saal. Meistara Pordar.

Nu hefur Lækner vor i Nordurlande, Sgr. Jon Peturs Son, utañ og iñañ Lands reyndur ad Lærdoome og Nakvæme vid Siwka, samañteked eina Lækninga Book, er inneheldur Utskijring aa almeñustu Siwkdoomum, og rædur til innlendra Medala, og þeirra sem med miñstum Dijrleika faast kuña fraa Apothekenu. Þessa sijna Lækninga Book, munde velnefndur Auctor af Hende laata til Pryckingar, Almeñinge til Nota, munde eg og, i Tillite til sama, laata Bookena prenta, ef visse hana so wtgengelega, ad skadlaus yrde, og Prentverked være under miñe Hende frañveges.

Nu so ad Landsmeñ mijner kuñe sia, hvørs þeir, af nefndre Lækninga

Book mege vænta sier, þa læt eg nu at Prent wtganga, þetta litla Skrif Auctoris um̃ Ick t s y k e n a, (bæde epter hans siælfs, sem og an̄ara goodra og lærdra Manna vinsamlegum Tilmælum og Um̃beidne) i þeirre Von, ad þad, so sem nytsamt, og fleirstum skilian̄legt, verde vel medteked, og so wtgeingelegt, ad þar af fæest Tækefære og Upporsan, ad wtgefa þad stærra er, þessu og ødru nytsamlegu vidvijkiande, einkum medan̄ eingen̄ Ekla er a naudsynlegum Hwss-Lestra Bookum, og ødrum slijkum, er þiena til andlegrar Uppbyggingar.

Hoolum i Hiallta-Dal, þann 23. Februarii. 1 7 8 2.

Jon Arna Son.
p. t. Hoola St. Oeconomus.

# AUCTORI.

Hvad er Liif ean Heilsu? Nauder.
Hveriu leingst er biargad? Fiere,
Medann Tijmenn mæduſamur,
Manne Daga Skeided ſpannar;
Pannig Møkum hanns ad hlinna,
Hyrda fleſter, Baga ſtirdu,
Ad þeim Tijden efre leideſt,
Eda ſlijteſt Þrauta lijtel.

Þvi er vijſt, ad þeſſum eige,
Þrijtur Lof, eda Soome nijtur,
Hvørier ſijnu Verke veria,
Virda Sioot ad Hags Umbootum;
Og ſinn læta hrærdann Huga,
Hinum, þeim er valla Skine,
Barnſt, ſijnu forda Fiere,
Frædis til og Heilſu Giæda.

Ydar Ment ſie hærſtum Heidre,
hafinn, Rauſt og Þanke ſtrafar,

 Med-



Medann Sool um̃ Lopted leider,
Leiptur Gullen Farfa steypta,
L æ k n e r betste! Dad er dijrsta,
Dvelied eingra Þørfum vélta,
Feldur læted Skrif Ostreitenn,
Skilast giørd um̃ Foostur-Jørdu.

Note vijda L æ k n i s - L e t u r,
Lendur Fedra, og Speke senda:
Læte Skrif hanns Lista matenn,
Lundu þeirre betsta mun̄de.
Sitied heiler aller Jtar,
under Merkium Lucku-Stunda.
Rited Piooden packe nijta.
Þroten B a g a stijngur Lotum.



B. J. S.



I. Cap.



# I. Cap.

## Um Icktsyke edur Lidaveike, og hennar Tegunder.

§. 1.

Icktsyken er innefalen i riifande og sliitande, samt ablvana giorande, seidingsfullre Verkiar-Tilfinningu, i einum edur ødrum Liikamanns Lim, hvern hun innekur, um siaalf Lida-mooten.

§. 2.

Lidaveiken er annadhvort fost vid einn Lim, hvern hun hefur inneked, og kallast þvi Føst edur Stadfest Lidaveike [ Arthritis

 fixa.

fixa ] Edur hun hleipur sem flimgande Pijla og Leiptran, fra einum Lid til annars; Hvar fyrer hun kallast Slugkveisa [ Arthritis vaga ] Hinne fyrre fylger miog skialdann Boolga, eingenn Rode, og ecke heldur so ofbodsleger Kvalar Verker, ( a ) og Saarende, sem hinne sijdare, i hvorre Holded boolgnar, rodnar og glansar med Ohɔlande Pijnu, so þo ei nema lijtel Fiodur kome vid Limenn, liggur hinum Simka vid Osbode; Sm fasta, Icktsyke kemur skialdann med mikelle Kolldu; Hin sijdare hvert a moot.

## §. 3.

Hier a Lande er Icktsyke stundum samferda odrum Simkdoomum; Stundum kemur hun þar einn Simkdoomur hefur med ollu vered forsoomadur, og Simklingurenn illa medhondladur. Kome hun epter illa læknada Saara-Soott, kallast hun Arthritis venerea.

(a) Þegar Icktsyken er fullmognud, og þar eru komen vond etande Sair a Limuna, rædst hun a Simklingenn aptur og aptur undann Illvidrum, og jafnvel hvoriu Stoorstreyme, med Ognarlegum Kvalar Verkinum, af hvorra Osbode hinn Veike veinar sem hardast joodsimk Kona, og þoler Otmlega sterk Medol, eiñeñ i Augun ad bera vide infr. §. §. 50. & seqv.

rea. Kome hun epter illa medhondladann Skirbiwg, sem ad miklu Leite hefur meltst wr einne Manneskiu, kallast hun Arthritis scorbutica. So sem þad er fyrer einn goodañ og reyndañ Lækner alleina, ad þeckia og rettelega medhondla tiedar twær Tegunder Lidaveikennar, koma þær hier ei framar til Umtals; Þeirra verdur og wtþryckelega geted þar, hvar talad er um sicalfann Siwkdoomeñ, af hvorium þær koma, hvor um sig.

## §. 4.

Inntake Icktsyken Hendurnar maa hun kallast Handaveike [ Chiragra ] Hafi hun sitt Adsetur i Knicanum, heiter hun Knicalida Verkur [ Gonagra ] Asæke hun Fæturnar, kallast hun Footaveike [ Podagra ] Sie hennar Adsetur i Miodm og Lære, heiter þad Miadma Verkur [ malum ischiaticum ] Nedarlega i Spialdhriggnum liggur optlega Verkur, hvor eckert er annad enn ein Tegund Icktsyke, ( a ) hann hafa Menn kallad

( a ) Boerhave, og marger hálærder Menn, eru samu Meiningar; Þvi kallar hañ Siwkdoomeñ Lumbaginem Rhevmaticam inferiorem, nær hañ talar de malo ischiatico, tilgreinande

kallad Lumbaginem a Latinu, enn vier Bak-Verk (a) Allar hier taldar Tegunder Icktsyke, eru annadhvert tilfallande heim þar af plaagast; Edur sem Arfa-Hlute af Icktsiwkum Foreldrum epterlaatnar.

§. 5.

J Raun rettre, eru allar þessar Tegunder Icktsyke, hardtnær eitt og hid sama: Þeirra verulega Asigkomulag og Ordsaker mismuna ecke, nema miög lijted, sem sijdar mun sagdt verda. Flugkveisan plagar opt med Tijmaleingdenne ad umbreitast i þaa føstu Icktsyke. Þessar tvær Tegunder eru þad þo alleina, sem Menn geta vel adgreint, þviad sw fasta Icktsyke

ande þar Icktsykennar Adsetur, sem hann seger vera os sacrum, edur hid helga Bein. De Gørter og fleire, eru hier i moot; Enu fæ ra ei anægianlegar Roksemder til Asiædu sinar. Hiaatrwarfuller Kuklarar hafa Mønnum fordum Daga innbyrlad, þesse Siwkdoomur være yfir-naatturlegur, komenn af Fødur þeirra Fianda, kallad hañ þvi Galdra-Bak.

(a) Grikker kølludu þa Psoadicos er þesse Tegund Icktsyke hiaade, takande þa Nafngift af Lenda Vødvunum Conf. Cæl. Aurel. Libr. V. Cap. I. de morbis Chronic.

syke færer ecke almennelega so mikla og Olijdande Kvalar Verke med sier, sem hin, jafnvel þoott hun epter Areynslur verde optsinnis ysred skiæd, so hinn Siwke þole litla edur einga Hræring a sier ad hafa. Kalldan, Hofudverkurenn og Þorstenn eru i Flugkveisunne ætijd meire; Sw fasta Icktsyke er aptur langsamare, og inntekur aldrei eins marga Lijkamanns Limu i einu Ahlaupe, sem sw Flimgande, jafnvel þo bædar hvarfle wr sijnu veniulega Plaatze. J þeirre føstu Icktsyke verdur sa lijdande Partur Lijkamanns aldrei so heitur nie vidkvæmur wtvortis, sem i hinne, §. 2. Sw fasta Icktsyke kemur aldrei a jafn-wngar Manneskiur, sem sw Flimgande. J þeirre føstu Icktsyke heldur sa lijdande Limur Lijkamanns sijnum natturlega Lit, og boolgnar skialdann; Enn epter þad Flugkveisan hefur varad 3. edur 7. Daga, boolgna Lidamooten, hvar hun hefur sitt Adsetur, hitna, rodna og glansa. (Sia §. 2.)

§. 6.

Af offstødnu Bloode ordsakast optlega þau Tilfelle, sem eru Lidaveike miøg lijk; Enn þau mijnka annadhvert af sialfu sier, . Bloodtøku edur Aburde, hvad Icktsyken ecke giører. Bloodverkerner hafa sitt Adsetur i Ædum, og þeim innre Portum Lijkamanns; Icktsyken

þverr

Hvert a moot i Vodvanna Kiøt-Prædum, Heim Himnum, sem eru Sina-Kyns, [Genere tendinoso] og Bøndum Lidamootanna. Bloodverkerner færa opt med sier Boolgu, i hverre ad grefur, og þa soddann Mein og Kyle eru rett med høndlud, læknast þau audveldlega, æn þess ad læta nockur ill Merke epter sig; Icktsyken þar a moot, þæ skialdann hun grefur wt, giører Limuna stirda, kreppta og hnytta: Hun ordsakar og optlega Beinætu. [Cariem ossium]

§. 7.

Jafnvel þo marger lærder Menn og Nættwru Spekingar, hafe sagdt þad fortakslaust, ad Icktsykennar eigennlege Tijme være Haust og Vor, a hverium hun plagade ad yfirfalla sijna Pijslarvotta; Þa hefur þo Reynslan syndt oss, ad hun heldur hverke stødugann Frid, nie heyer eitt. regl urett Strijd, heldur er hun sem sijflackande Reisare, alltijd reidubwen ad grijpa Foolk, þegar minnst varer, a hverium sem helst Arsens Tijma. Og allt eins er þad: Þar finnst ecke einn Lidur a Mannsins heila Lijkama, yfir hvern hennar Herradæme kann ecke ad wtbreida sig.

§. 8.

Eg vil hier eckert tala um̄ þad, hvar Icktsyke

syke sie, edur med hveriu moote uppkomen; Ecke heldur grenslast epter þvi, hvar, edur hvert hun hafe Landsarsoott vered i heil 20. Ar, og lagst bæde a Menn og Fenad. (a) Þad er noog, Menn vita hana ysred almenna i Austur-Rijke, enn i Dag, og vijdar, hvar hin svru Vijn skulu vera hennar Ordsok; Þo hafa Menn eingar Roksemder, af hverium þeir aalykta kunne, þad hun sie annarstadar almennare, enn hier nordarlega hia oss, hvar ei verdur med so miklum Rette skoted Skulldenne uppa Vijned, sem Nordmannanna Most, og addaannlegu Naatturu Gaafur; Hvad Hr. Hattee, einn vijdfrægur Fransfur Læfner, seger hvert um̃ sig sie kroptugra hier til, enn nockru sinne Vijn. Og þvi verdur ecke neitad, ad sterkar Ydkaner Booklegra Menta, og margvaattud þvilijk Heila- Brot lærdra og vitra Manna, veikia Magann, afla Milltes- Syke, og giora margann Þwngsinnadann, Þenkiande, Faalaatann og Icktsiwkann, hvar um̃ hinn mikle Boerhawe, Krüger, Haller, van-Switen, Untzer, og miklu sleire hafa so margt talad. Og Hr. Hattee seger fortakslaust, ad Icktsyken plaagie mest lærda og vitra Menn, sem betst sieu i Stande til ad greina Savnende fraa

(a) Þar um̃ maa lesa Athenæum, og fleire Elldgamla Auctores.

fraa Ligum. (a) Icktsykennar Magt siest nu ecke aa þeim saklausu Ungbornum, ecke heldur hinum Hæroldrudu og Dandlausu. I fyrstu rædst hun aa hid sterkasta, hraustasta og lijflegasta Foolk, sem verdur hennar Offur, og þad margopt aa þess betsta Aldre (b) þvi þesser taka sem optast Feil, i þeirra Giørdum og Lijfernis Hættum, hvar under Magenn maa lijda, og þeir siaalfer dijrt betala aa sijnum efra Aldre. Hier fyrer hafa nockrer aaliteð Icktsykena, sem være hun hin ønnur Trappa af Milltessyke. Etmyller seger, ad hiner Icktsiwku finne optlega, aadur þesse Siwkdoomur yfirfalle þaa, ad Lijfed

(a) Og hvad seger ecke Ovidius hier um̃:
Attenuant vigiles corpus miſerabile curæ,
Adducitq; cutim macies, & in aera ſuccus
Corporis omnis abit; vox tantum atq; oſſa ſuperſunt.

(b) Þar i eru marger Natturu Spekingar samstema, ad Kvennfoolke sie ei jafnhætt vid Icktsyke og Karlmønnum; Enn hier i Lande vilia þar verda Ahøld um̃, þar eg til veit, edur þvi nær, sumstadar med þeim Mismun, ad eg hefe sied hana jafnverre hier aa Kvennfoolke enn Karlmønnum, þoott aldrei smacke þær Øl, Møst, edur nockurslags Wijn.

Lijfed sie forstoppad, og um Flagbriooſked finne þeir til einslags Eymsla. Sydenham, nær hann talar um Footaveike, tekur hier under, og seger Menn ſæe Olyst til Matar, nockrum Tijma adur þesse Siwkdoomur kome, og Magenn mellte ecke Fæduna, heldur fylleſt Slijme, og ſumer ete þaa miked.

§. 9.

Þvi verdur ecke moote mælt, ad þar sie einslags Samfelag med þeſſa Siwkdooms Tilfellum, og Matar-Melltingu Maganns: Þad er so augliooſt ollum adgiætnum Monnum, þegar Icktsyken hleipur wr Limunum i Magann, og þadann aptur i Limuna wtvortis, ad þad þarf varla Bevijsingar vid; Og þegar hun kemur, þaa byria þeir Siwku strax ad klaga yfir innvortis Hita, Þorsta og Matar Olyst, hvad Sydenham seger stundum kunne vara nockrar Vikur (a) og aukeſt daglega. Og Mead fortelur, ad vid Icktsykena sie nockud vel adgiætande, sem hann ecke hafe funded vid adra Siwkdooma, nefnelega: Þaa hun hlaupe i Magann, giøre hun hann uppaa einn forundrunarlegann Maata tilfinningarlausann, og so kalldann, ad hann kunne þola Vijn sem Vatn,

B og

(a) In Tractatu de Podagra, Pag. 5.

og betst og lettast þa megnustu Fædu. Þetta Ásigkomulag maa Læknerenn naakvæmlega yfirvega, seger hann, og ecke alleina gefa þeim Siwka miked af goodu Vijne, heldur og so Brennevijn ad drecka, sem er giordt sterkara og kroptugra med Høggorma-Urt [Serpentaria] Engefer og Hvijtalauk. Ja, þar sem þetta er enn nu oflijted, þa maa Madur gefa þeim Siwka Pulver af Høggorms-Root, Engefer og laungum Pipar, blandad med Confectione candiaca. Sydenham, hver þa hafde Icktsiwkur vered 34. Ar, talar um̃ vidlijk Tilfelle a sialfum sier, nefnelega; Maga-Verk med Uppsolu; Vid hveriu hann drack Miju wr Mioolk, sem med miklu Øle var ÿst, og þa hann hafde selt vel upp, drack hann nockud, sem vel vermde og styrkte Magann, og Laudanum (a) þar vid blandad, lagde sig sijdann til Svefns. Af slijku er audsied, ad þesser goodu Menn hafa fyrst og fremst viliad styrkia Magann, so sem þad Innible, i hveriu hin heldsta Ordsok Icktsykennar læge hulen, og aan hvers hun yrde ecke yfirunnen. Sa Hofudverkur, sem fylger Icktsyke, læknast af eingu

(a) Sydenhams Svefn-giørande og Verk-eydande Dropa, ɔ: Laudanum liqvidum Sydenhami, sem under þvi Nafne kaupest a Apotheke.

eingu betur, enn goodu Uppsolu og Bwk-hreinsande Medale, asamt Stool-Pijpum, sem Junker hefur optlega tilrꜳded hinum Icktsiwku, til størstu Heilla og Hiꜳlpar. Og hvad vil eg hier um̃ so margt tala? Reynslan skal syna einum adgiætnum Practico, ad Maganns Fordiorfun hefur hier stoorann Hlut i, hversu sem Menn hijngad til hafa lꜳted sig blinda, af raungum, og Reynslunne gagnstædelegum Innbirlingum, med þvi, ad vilia stilla Sinarnar til Frids med temprande Medolum, styrkia Lidamooten med wtvortis Aburde, hreinsa Blooded, og giora, eg veit ecke hvad fyrer lærd Meistara-Sticke, til lijtella Nota, hvar um̃ eg hefe optlega avaxtarlijted, leitast vid ad sannfæra Menn, hvar af nockrer eru, sem eigenn Innbirlingar meta ollum Sannleik framar.



# II. Cap.

## Um̃ Ordsaker, Verkaner og Tilfelle Icktsykennar.

### §. 10.

Pad eru so margar Ordsaker Icktsykennar af

lærdum Mønnum taldar, ad þad vilde kosta heilmiked, þær allar hier ad uppreikna. Nockr[e]r segia ad eitt swort, adrer, ad eitt etande og Galle blandad Sallt sie hennar Tilefne; Enn adrer vilia læta þad heita samann-snerpande [adstringens] Materiu, og so frammvegis. Sumer taka Reynsluna til Hiælpar, og meina, af þvi, ad i uppskornum Lijkhomum þeirra wr Icktsyke daudu, hefur fundest Sand-Vera umm Lidamooten, nær þvi somu Tegundar sem Vijnsteinn, þæ hafe þeir fenged Icktsykennar Efne, hvad og er trwlegt, so sem þvilijkt er optlega ad siæ i Þvage hinna Icktsiwku. Þegar Chymistarner hafa rannsakad þessa Sand-Veru, hefur hun samannstaded af miøg fijnne, og swortu Sallte meingadre Jørdu, wr hverre ad fengest hefur Olia, miøg lijk Vijnsteins Oliu, so vel i Tillite til Smecks, sem Lyktar og annara Eigennlegleika; Þar ad auk eitt Lwtar Sallt [alkali] sem i allann Mæta hefur vered eins og Vijnsteins Sallt, ad undannteknum Smecknum, sem hier hefur ævallt miøg vidbioodslegur vered. (a) Þesse Vijnsteins Vera verdur nu annadhvert ad tilbwast i Softunum siælfum, og koma æsamt þeim i Lidamooten, edur sæ Swr, sem er i Softunum,

(a) Siæ Kenkrings Spicileg. anatomic. 28. Observ.

um, verdur ad samañblandast þeim Vessa, sem Lidamootunum er til þeirra Hræringar gefenn og Omissande, og þannig sameinast þeirre ofur sijnu Jordu, sem hinn same Vesse i sier hefur. Pechlinus er þessu nockurn Part samkvæmur, og hann segest fenged hafa þvilijkt eitt Sallt, sem ædur er umtalad, wr Saurendum og Svita þeirra, er med Footaveike hafe plægast. Hier af er audsied, hvernenn þad tilkemur, ad Svite hinna Icktsiwku luktar bæde sterkt og illa, sierdeiles ædur hennar Ahlaup koma. Lijka vita Menn, hvar fyrer sw mikla Matar-Lyst, er morgum, sem hefur Footaveike, so ad segia eigennleg, sierdeiles um þær Munder, nær þesse Ovinur heimsæker þaa, nefnelega, þeim mikla Swr, sem Munnvatnenu og Liqvore gastrico samblandast. Nu er Spursmaal: Uppaa hvern Maata aflast þesse Onatturlege Swr? Og hvernenn kemur hann samann vid vorar Safter? Hier til verdur ecke odru svarad, enn þvi, ad Swrenn aflest i Maganum, og kome af fordiarfadre Matar-Melltingu (siaa §. 9.) Þegar Magenn er of dugnadarlijtell, til ad mellta Fædunna, stendur hun leingur enn ber i Maganum, wldnar þar og swrnar, hvar af Næringar Saften og so swrnar, og misser sijna rettu Eigennlegleika, samblandast þannig ædsigkomen Bloode og Softum, og meddeiler þeim, einn Dag epter annann, æ meire og meire Swr,

sem sijdann, fæder og fooſtrar Siwkdoomenn. Vier finnum i vorum Soſtum einn ſierdeiles fijnann og þunnann Vokva, ſem hiœlpar og vidheldur Saſtanna Hræringu og Samblande; Med hveriu Moote ſem þeſſe Vokve mijnkar, þaa kemur þar af hin ſtærſta Oregla i Saſtanna Samblondun: Bloodſins nœtturlega Hræring veikeſt: Blooded verdur þar vid þickt og ſeigt: Þeir Partar ſem þar i eru af Jordu og Slijme, taka ſmaamſamann Yfirhond: Þeir ſmaau Gœngveger, ſem eiga ad adſkilia Saſtarnar, og færa þær Oþorfu wt af Lijkamanum, verda tilſtibladar: Þeir Onijtu Partar Fædunnar, ſem i Maganum illa melltuſt, hreinſaſt ecke tilhlijdelega wt af Lijkamanum, hiner uñtbreitaſt ecke heldur vel, er til Bloodſins gengu; Hvar af naudſynlega maa koma Stwr og Slijm i allar Saſter, og þvi ſameinaſt þeir jardlegu og ſlijmſullu Partar hver odrum, þœngad til þeſs, ad þar uñ ſijder mindaſt og fædeſt af œdur uñgeten Vijnſteins Vera.

§. 11.

Eg þore ad ſegia, þar geſſt ein Tegund Flugkveiſu, ſem eckert er annad, enn hid fijna Lopt, ſem ecke nær ſijnum retta Framgœnge i Lijkamanum, og er innebirgt i þeim fijnu og tilfinningarfullu Lijkamanns Portum, hvar þad

hleipur

hleipur fram og til Baka, sem flwgande Pijla, med hinne scaruſtu Tilſinningu. (a) Þegar hiner Ic̄ktſiwku inntaka goodar Bwkhreinſaner, ſem ꝏſamt Saurendunum drijfa mikla Vinda wt af Lijkamanum, er ſem þeim finneſt þeir kome frꝏ þeim Stodum, hvar Tilſinningen var ꝏdur ſcaruſt, og þetta giorer þeim einn mikenn og fliootann Letter, allt eins og Hypocondriſkum og Hyſteriſkum Perſonum, i hverium ein Otrwleg Mergd er af þeſshꝏttar innkreptum Vindum, hverier allra fyrſt lꝏta ſig i Lioosſe, epter ad Madur 4. edur 5 ſinnum hefur þeim inngefed good Mat = melltande Medøl [digeſtiva] og eins opt ſett hinum Siwka Stools Pijpu; Og þetta er einn hinn nꝏtturlegaſte Avortur, ſem ſprettur wt af fordiarfadre Mat = Melltingu, og Inniblanna Dugnadarleyſe; Edur fliootum Kulda ofann ꝏ mikenn Hita og Preytu, hvad hid ſijdara hier ꝏ Lande er almennt, og eg heſe ſiꝏlfur reynt, optlega ſijdann yfirvegad, og ꝏ odrum ſannad.

## §. 12.

Sie ſw Gift, ſem ordſakar Ic̄ktſykena ecke

 hid

(a) Propagatio talis fieri poteſt, vel per fiſtulas aereas, vel per fluidum nerveum, & res tamen eodem redit.

hid fijna Lopt, þa er hun þo eins fliot i Ferdum. Þad er so hægt ad sia, hia ollum þeim er hafa Flugkveisu, hversu hun eitt Augablik kann ad vera, nu i þessum, nu i hinum Lijkamanns Lim, sem annad Reidarslag være; Og stundum streymer hun sem Iskaldt Vatn, wr einum Lid i annann, hvar fyrer Fransker munu hafa gefed henne þad Nafn: La goutte. Nakir, sem Albucasis um̄talar, og hefur sinn Uppruna af Skirbiwg, er eckert anad enn Flugkveisa, liggiande i Bakenu upp med Hriggiar-Lidunum, og nidur i Spialdhriggenn, enn hleypur þo i einu Augablike um̄ alla Lijkamans Limu; Hun er alleina þar i audþeckt fra ollum odrum Tegundum Icktsyke, ad sw Tilfinning, sem henne fylger, er lijkust Orma-Nage. Hvad munde nu fast hendtugra, til ad framleida soddann Tilfinningu, enn innelukter Vindar, hverier vid hina minnstu Magans Forstoppun safnast i Lijkamann, asamt Slijme og Oklarendum, og yfirfalla so hinn Siwka þa minnst varer?

§. 13.

Af þessu, sem nu hefe eg sagdt, uppkemur ein Regla, ollum Icktsiwkum Omissande, nefnelega: Ad hafa hina stærstu Adgiætslu a, ad styrkia Magans Melltingar Krapt, flya og fordast allt þad, sem hann kann ad veikia, so

sem miked swrt, ofur sallt, miked hœnged, wlded og morked, þvi þetta eikur Vinda, og fordiarfar Magann. Hier hiœ ber þeim ad hafa stœrstu Adgiœtslu œ sier, og œtijd þœ Magenn forstoppast, brwka þœg og good Bwkhreinsande Medol, sem vel hreinsa Lijkamann, og burtfœra Slijmed; Þess i millum er og naudsynlegt odruhverin, ad brwka good Magastyrkiande og Mellting-hiœlpande Medol. Um þetta skal sijdann frekar talad verda.

§. 14.

Þœr Verkaner, sem flioota af Magans hier ad ofann umtaladre Fordiorfun, og þau Tilfelle, sem naudsynlega fylgia Flugkveisu, eru ad sonnu ecke alltijd hin somu, enn þo sem optast ofur nœskyld, so þegar sweina Tegund hennar er wtmœlud, eiga þar allar Hlut i. Footaveiken, sem tijdum er hin hardasta, kemur med Klœda og Stijngium i Footunum, Abl-leyse og Þyngslum i Lidamootunum, sem smœmsamann fœrest i Voxt: Stundum meintekur hun so hinn Siwka œ einum Dege, ad hann liggur i Sœngenne, sem vœre hann bundenn vid jardfastann Klett: Stundum kemur hun med Kulda og Skiœlfta, hver epter lijtenn Tijma umbreitest i Hita, med miklum Kvalar Verk i Footunum, hver stundum brennur sem

Glood: Stundum finnst hinum Siwka, sem Jskaldt Vatn streyme gegnum Lidamooten: Stundum er eins og Sinarnar spennest so hardt, sem vildu þær i Haste sundur bresta. Hiaa nockrum verda Menn varer vid þvilijka eina flivgande Tilfinningu, er þeir jafna vid hina fliootustu Ferd einnrar Pijlu, sem flygur af hardspenntum Boga. J þvilijkre Kvol liggia hiner Jcktsiwku Dag og Noott, aan þess ad sofa hid minnsta i 3. til 7. Daga, med Hita, Þorsta og Hofudverk, þaa þeir um sijder falla i lausann Svefn, i hverium annar Footurenn edur bæder boolgna, af þeim Vessum, er briootast wt wr sijnum rettu Farvegum, allt eins og Nætturan vilie dreckia þar i sijnum Ovin, vid hvern hun ecke aa annann Hatt kunne laus ad verda. Þetta Tilfelle finnst ecke hiaa hinne føstu Jcktsyke, hver alleina þeckest af Verkanenne, sem oller þvi, ad saa Limur, i hvern hun kemur, misser miked af sijnum Hræringar Krapte, medann hennar Ahlaup varer, og stundum verdur hann ecke hrærdur hid allra minnsta, og þetta er ollum Tegundum Jcktsyke sameigennlegt. Þannenn rasar þesse Siwkdoomur i fulla 14. Daga, epter Hippocratis Reikninge, aan þess ad gefa hinum Siwka nockra Hægd. J þessu Tilstande er ei ad undra, þoott hinn Siwke sie styggllyndur, þegiande og hafi mikla Matar Olyst. Þvaged er sem opt-

aft

ast raudt, þickt, edur setur Sandveru ꝏ Botn
þess Ilaats, sem þad i stendur; Stundum er
þad lijkt Hesta Hlande; Stundum er þar ad
sioa sem Dupt af samann-nwnum Mwrsteinum,
[Sedimento] sem lijkast er Tannskoof, [Tartaro dentium] Þeir ed hafa Miadmaverk,
finna stundum smꝏ-Hvot i Lærenu edur Kaalfanum, sem þar kvikade nockud lifande, ꝏn þess
ad þreyngiast þar af. Miadmaverkurenn
kemur opt fyrer utann Kolldu, hann varer stundum miked leinge, hann grijpur skialdann marga
Lijkamanns Limu i einu; Og þo hann setiest i
Miodm og Lær, um̃breitest þad hverke i Tillite
til Hita nie Kullda, ei helldur rodnar þad nie
boolgnar; Þo kann slijkt ad bera vid, enn þad
er miog skialdann. Flugkveisan grijpur wngar, frijskar og rett lijflegar Manneskiur; Þesse
heimsæker giarnann Foolk um̃ edur yfir Fertugt.
Miadmaverkurenn er hinn þrꝏlꝏtaste af ollum Tegundum Icktsyke, og jafnvel þott hann
i fyrstu setiest i Miodmena, verdur hann um̃ sijder Lærenu eins skiædur, og giorer þad i Ahlaupunum ablvana. Allmorgum Icktsiwkum er
þad eigennlegt, ad þiꝏst hvad helldst ꝏ Næturtijmanum. Verkerner eru skialdann under
eins jafner beggia vegna i Lijkamanum, og þegar þeir inntaka Vidbeined [claviculam] gefur
Icktsyken þar med sijna fyrerhafande Reisu til
Vitundar, frꝏ þeirre einu Sijdu i þꝏ adra.

§. 15.

§. 15.

Þad er ecke þar med bwed, ad Icktsyken hleipur, sem œdur er œvikad, frœ einum wt-vortis Lim til annars, hun yfirgefur þœ stundum, fyrer litla Yfirsioon, og setst ad Inniblunum, hvar hun ordsakar hin verstu Tilfelle, hverra Endalykt optlega er brœdur Daude. Take Madur heit og skorp Bwk-hreinsande Medol, giora þau scarar Innanntokur, hvar strax œ epter fylger ein illa læknande Lijfsyke, sem ætijd myrder eina Manneskiu, nema hid snarasta sie komed til Hialpar, med ad setia eina gooda Stoolpijpu. Iœ, sialft Sydenhams Laudanum giorer hier einga Verkun, nema Magenn sie œdur hreinsadur, hvad Musgrave allt œ sijnum Dogum adgiætt hefur; Og Ordsoken hier til, er eingen onnur enn sw: Ad Icktsykennar Efne aflast æ meir og meir i Maganum, nema þad sie hindrad, med þvi ad hreinsa hin groofu Saurende burt wr honum, og þœ hid fyrsta flyr þesse Ovinur aptur i Utlimuna. Snoggur Kullde ofann œ sterkann Hita, er hier eingu betre, þvi hann framleider nærsta þvi somu Tilfelle, og œdur var umtalad. (§. 11.)

§. 16.

Þad mun synast fleirum enn einum æde

længt sookt, ad eg hefe wtgefed Magans Dugnadarleyse og fordiarfada Matar=Melltingu, fyrer Ordsok, hier ad framann upptalenna Tilfella, er optast hafa sitt Adsetur i Limunum wtvortis; Enn hver sem adgiæter hid ædur sagda, og samannber þad vid þad hier epter fylger, og daglega Reynslu margra Manna, i imsum Stodum og æ imsum Olldum, mun gloggt siæ, ad slijkt er bæde Sogn og Sannende. Þegar eg, æn þess ad vera inntekenn af minne Meiningu, tek mijnar Bevijsingar og Astædur af lærdra og reyndra Manna Munne, hverra Mæte, sem þeir brwkad hafa til ad lækna Lidaveike, nooglega syner hvar hennar Efne sædest, og hverneun hun verde hindrud og læknud, hefe eg afloked Skyldu minne; Enn epterlæt hverium einum ad hafa sijna Meiningu fyrer sig.



# III. Cap.

## Lækningar-Mæte Lidaveike.

§. 17.

Lækningar-Mæte Lidaveikennar, so vel

sem

sem margra annara Siwkdooma, er fierdeiles twøfaldur, Þvi annadhvert kann Madur ad afvenda, hindra edur lina hennar Ahlaup, med naudsynlegum og hollum Raadum, og a rettum Tijma brwkudum Medolum, edur lækna hana ad fullu. Vil eg þvi fyrst tala um þad, hvad hijngad til Dags er uppgotvad, ofs naudsynlegt, til ad aptra edur lina Icktsykennar Asøll; Og sijdann, hvad Menn brwka skule, til ad lækna hana med, þaa hun yfirstendur.

## §. 18.

Saa ed Icktsyke hefur og hiaalpast vill, maa adgiæta þetta: Þvi optar sem Flugkveisan kemur, og þess hardare sem hennar Tilfelle eru, þess fliootara umbreitest hun i þaa Føstu; Og þaa hun inntekur Hendur og Fætur, er hun ætijd laangsamare, enn nær hun setst i Hofud, Bak edur Briost. Þær Personur, hverium a þeirra wngu Arum er hætt vid Sinadrætte, verda opt a þeirra efra Alldre yfirfallnar af Lidaveike: Þeir ed wnger saa Lidaveike, verda skialdann fyrer henne frijer gamler, og þvilijkar Personur naa ei optsinnes haaum Alldre. Þar Skirbiwgur og Lidaveike eru samferda, þaa er Pijnan ofur saar og hord, og þar fylger tijdast med Nasa-Blood, Blood-Hooste edur Blood-Piss. Þvi fyrr sem

sem einn Lækner sær þenna Siwkdoom til Adgiorda, þess lettara er ad hiœlpa þeim Siwka; Hafe Icktsyken gagntekeð Hendur edur Fætur, og sie orden innrætt, er ei ad vænta fullkomens Bata. Mege Icktsyken Ohindrud leika vid sijn Pijslarvætte, wtleikur hun þau hryggelega. (a) Þegar Handa og Footaveike kemur ecke

(a) Kona nockur i Borgarfyrde, hefur i mørg Ar þiaðst af Icktsyke, sem hefur haft sitt Adsetur i Høndum hennar og Høfde, hveria hun hefur so wtleikeð, ad Munnurenn er komenn wt a hægre Kinnena, hver øll er samann dregenn: Augna-Hvarmarner umhverfer, og hrylleleger Utlits, so a hennar heila Andlite er varla orden Manns Mind: Hendurnar eru krepptar, hnijttar, og med Sarum, er stundum groea i einum Stad, og koma wt aptur i ødrum, Holldeð er þar miøg wrdregeð. Fyrer hvert Stoor- og Ill-Vidre, og hvern Stoor-Straum, fær hun þvilijk Ofboðs Køst i Augun, Andliteð og Hendurnar, ad Menn hyggia hun snarlega deya mune, og eingenn Hlutur linar hennar Augum, nema sa sterkaste Camphoru Spiritus med Saffrane. Ætijd eru þesse Tilfelle hørdust a Mattar-Tijmanum, þa hun, sem Ormur, velltest og teigest af Ofraun þeirra Kvala, sem þa a henne liggia, i hverium hun stundum brennur sem i Ellde; Stundum streymer þetta Ofboð, sem kalldur Ar-Straumur, wr einum Lid i annann, enn nemur þo ætijd Stadar i Høndum og Andlite.

Vidlijka wtlijtande Kvenn-Persoun sa eg, Sun-

ecke a sijnum veniulegum Tijmum, edur ser hreint burtu an Medala, edur sie hun fyrer illa medhondlud Læknis-Medol drifen til Baka i Inniblen, og þar af ordsakest Innanntokur, Bwkhlaup, Hofudverkur, og þvilijkt, eru hiner Siwku ætijd i Lijfs-Hættu stadder: Portæden hefur þar vid stundum stiblast, og hiner Siwku dæed snogglega. Hvert a moote, gefe vasa hæmorrhoidalia Blood fra sier, (a) liettet hinum Siwka optar. Þar Icktsyken giorer Hnwta um̃ Lidamooten, og þar hun er Erfda-Hlute, er hun halden Olæknande. Gange sa Limur wr Lide, hvar Icktsyken situr, verdur þad Olæknande, þvi Bond Lidamootsins eru so ablvana orden, ad þau styrkiast ei, þo i Lidenn sie kippt.

§. 19.

Þa

Sumared 1772. a Stoorabotne, innann Saurbæar Sooknar a Hvalfiardar-Strønd; Þæt skilde þo þar i, ad þesse hafde mist frem̃stu Lide af stooru Taunum, og þar voru mikel og stoor Saar a Ristunum og Iliunum. Hin hefur mist frem̃sta Lid vinstre Handar Þumalfingurs, og optlega hefur hun Saar a Kniamum.

(a) Gange hid hreina Blood nidur af hinum Siwka til Baksins, þa kemur þad, wr vasis hæmorrhoidalibus; Enn sie þar Slijm med, er þad Bloodgangur.

Þann Reglu hafa aller Læknarar samhuga gefed þeim, ed Icktsykena vilia hindra, edur ad hun ei take Yfirhönd: Ad þeir skule elska Hoofseme, og lifa sparsamlega, so vel i Mat sem Dryck. (a) Þviad Icktsiwker hafa optlega vered hafder grunsamer fyrer þvi, ad þeir ei ofvel adgiættu slijkt, hvar med þeir optsinnes giordu sijnum auma Maga Ofrijke, med þvi ad elska ofmiøg, annadhvert Vijn, Venerem edur Kirrsetur; Hvad allt hvert med ødru forbiarfar Magann, og asamt þvi Matenn, sem i honum melltast atte, og gefa af sier gooda Næringar Saft. Hier fyrer hafa þeir enn framar raaded, ad so fliott sem hiner Icktsiwku finndu til hinnar minnstu Matar Olyst, skyldu þeir annadhvert fasta, edur og taka inn Uppsølu Medal. Hid sijdara hafa marger ypparleger Menn reynt ad vera hid kroptugasta

 Med-

(a) Þar um talar Lister a þennann Hätt, segiande: Unica illa aurea regula de abstinentia, mihi certè maximè arridet, nempe: ut iis, qvibus aut integra sanitas, aut longiora valetudinis bonæ intervalla cordi sunt, parva cibatio summæ curæ sit; atq; hoc omnibus hominibus, qvocunq; demum statu & conditione sint, cum ipsius qvoq; exercitiis loco esse potest, etiam pedibus ex toto captis.

Medal, til ad hindra þennann Siwkdoom, a ollum þeim Manneskium, hvar adrar Krijngumstædur þad ecke banna: So sem Kvidslit, Boolga og Prote i Inniblunum, Blood-Hooste, Blood-Uppgangur, Nidursig Moodur-Lijfsins, Enda-Parmsins, og þegar einn er of Blood-mikell, og so frammveges. Vijn og afenger Drycker eru ætijd skadleger, sierdeiles a fastande Maga, edur millum Maltijda, þa Magenn a ad mellta Fæduna; Hvar um Riverius, Crato og Baglivius hafa miked wtþrickelega skrifad. Miog kriddadar og feitar Swpur, eru ei þessum Siwkdoome hollar; Og yfir Hofud ad segia: Eckert þad miog so fyller Magann med groofum Ohreinendum. (§. 13.) Þunner og lietter Drycker þar a moot, sem eige auka Vinda, so sem Vatn og Mioolk til samanns, Misa af Mioolk, yfstre med Lisium edur Vijnsteins Riooma, [Cremore tartari] Vatne blandad Vijn, þetta hvad fyrer sig er saklaust og gott. Mead riede ollum þeim Icktsyke vildu hindra, ad drecka Vatn, eta liettar Maturter, lijted Kiot og nijann Fisk. Þetta er ad vijsu yfred gott; Enn þeir ed Icktsyke vilia hindra, hafa ei hiermed aflokeд Skyldu sinne: Þeir meiga þar hia hafa Gaat a þvi, ad Magenn aldrei sae ofmiked i einu, og þvi hafa marger sagdt soodann Foolke, ad þad skylde eta lijted, og fasta jafnvel i millum.

§. 20.

§. 20.

Þeir Fronsku og Engelsku Læknarar, hafa nockra Stund hroosad Mioolk og Mioolkur-Mat, fram yfir flest oll onnur Medol, til ad hindra Icktsyke; Og þvi verdur ecke neitad: Mioolken er þeim yfred good, hverra Hægder til Baksins hun ecke hindrar, enn hinum þar a moot skadleg. (a) Og þetta er Ordsoken, hvar fyrer allmarger Læknarar hafa rQded þeim eina til ad drecka Mioolk, og bannad þad hinum odrum; Hvar um Hr. Willis hefur miked vel talad. Mead riede eingum, sem leinge hafde þiaadst af Icktsyke, til Mioolkur-Matar, (§. 19.) heldur wngum alleina, þeim hana hofdu niijfenged, og hverke dryckiu Ol nie

C 2 Viin,

(a) Sia Afhandlingarennar um þann Islendska Skirbiwg, 68. 69. Sijdu. Jafnvel þo Mioolken i og fyrer sialfa sig sie holl og good, þa gefast þo þær Manneskiur, hverra Hægder til Baksins hun giører miøg hardar, og Saurenden þurr; Lijka veit eg þad Kvennfoolk, hvers Mauada-Rais Mioolken i Haste eyder, hvar fyrer þad mai a þeim Tijma fordäst hana sem banvænann Hlut. Eg þecke og þann Mann hier a Lande, hverium Spena-volg nij Mioolk er eitt þægt og gott laxeer Medal. So miked sem Mioolkenne er nu ad hroosa i þvi sijdarsta Tilfelle, so lijted kann eg ad eggia a hennar Brwkun, i hinum Tilfellunum og vidlijkum.

Vijn, heldur toomt Vatn.

## §. 21.

Fyrer utann þad hier ad ofann sagdt hefe, Mat og Dryck vidviikiande, er ollum þeim, sem þviingast af Lidaveike, sierdeiles naudsynlegt: Þegar þeir verda varer vid hinn minnsta Vidbiood a Mat: Edur Hægdernar til Baksins i nockurn Maata hindrast, miinka edur þorna: Merke þeir Vinda i Maganum, Velgiu-Brot, Ohægd fyrer nedann Flagbriooſked, ofannn Naflann edur under Siidunum, med fleiru þeſshaattar; Þaa strax ad brwka, annadhvert Uppsolu-Medol, (a) linar og þægar Bwk-

(a) Þad er aan Efa hinn betste og farsælaste Maate, ad gefa fyrst allra eitt gott Uppsolu Medal, og þar epter, sem betst kann haga, þæg og hæg laxantia, edur Þarmana hreinsande Medol, og siidann þau Magann styrkia og Matenn mellta; Uḿ hver fyrer sig sia §. 23. & seqv.

Eg vil setia hier Hr. Allens Vitnesburd, uḿ Uppsolu Medol, og læt hann þena fyrer marga adra, er hier være oflaungt og Oþarflegt ad upptelia: Ast omnium vomitus est prophylacticum præstantissimum, qvi potest provocari emeticorum ope in insigni humorum colluvie, ubi juncturæ admodum

Bwkhreinsaner, edur þau Læknis-Medøl, sem betst kunna ad hiælpa Maganns Melltingar Krapte. Þetta er hinønnur Regla, hveria aller gooder Læknarar hafa samhuga gefed, þvi þeir hafa sied, ad Siwkdoomsins stærsta Ordsøk var i Maga og Inniblum; Þeir giættu og so þess, ad soddann mætte optlega gioraſt, ecke med hørdum og sterkum Medølum, heldur sierdeiles hægum, og þar hiæ styrkiande.

§. 22.

Nockrer hafa viliad, ad þetta skylde gioraſt Haust og Vor alleina, þæ Icktsyken helldst var von ad gænga: Adrer aptur æ moot, sem sæu ad hun ecke var bunden vid einn vissann Tijma, hafa læted brwka Bwk-hreinsande Medol hvern Mænud: Og enn adrer hafa brwkad þau med øllum Jafnade, þængad til Magenn kunne vel ad giora sitt Verk. Og þannig hafa þeir nockud viked hver fræ ødrum, i Mæta og Vale Medalanna; Enn vered þo samsteña i Hofudpoostenum, ad hreinsa og styrk-



modum laxæ, at morbus præ foribus eſt. At qvi podagricus eſt, vis ſui arbitrii, præceptis medicis non auſcultat, ſed genio in valetudinis incommodum plerumq; indulget.

styrkia Inniblen.

§. 23.

Hvad Uppsölu Medölen ahrærer, þeir hafa Menn sem optast brwkad þau med bestu Notum, so vel i Icktsyke, sem ødrum Siwkdoomum, adur enn hennar Afsöll koma, hvar um margra mikellra Manna Vitnesburder eru samhliooda: Og þau hafa þar i Yfirburde yfir hin adur aminnstu Medöl, ad þau styrkia betur Lidamooten ; Enn þad er so opt, ad Menn meiga þau ei brwka vid hina Siwku, þoott þau annars sieu þeim harla good, (Sia §. 19.) Þeir Uppsölu Medöl brwka vilia, kunna ad þena sier af fylgiande: Tak Uppsölu Vijnstein 10. Grana, blanda þar vid goodum hoalsum Potte af volgu Vatne, hrær þad samann litla Stund, dreck sijdann Hoalfpartenn; Verke þetta ecke epter einn Tijma, kann Madur ad drecka enn nu Helming af þvi epter var. Edur tak af Uppsölu-Root Gr. 25. Vijnsteins-Riooma Gr. 20. steit smaatt hverttveggia, og tak inn i einu. Edur tak Aqvam Benedictam Rulandi, 2. Lod, (a) dreck

(a) Aqva Benedicta Rulandi, er eitt Agiætis Medal, og styrker miked vel Lijkamann ; Enn verkar sem optast upp og nidur, þarf þvi gooda Adgiæ

dreck þar af Helstena; Og verke það ecke epter einn Tijma, maa Ohætt taka það epter var. Það er vel athugande um oll Uppsolu Medol, að þaa þau fara að verka, skal hinn Siwke drecka volgt Vatn i Akefð, þvi meir sem hann kastar meiru upp.

§. 24.

Jafnvel þo aller gooder Læknarar hafe vereð samlynder i þvi, að brwka og brwka laata hæg og good Bwk-hreinsande Medol, til að hindra Icktsykena, edur og merkelega að veikia hennar hordu Araaser, þaa hefur stundum vereð



Adgiætne til ad brwka vel. Almennelegur Skamtur þar af er 1. Lod i ødrum Løndum, enn hier i Lande veiter eckert af 2. til velflestra Fullordenna; Þo er betur giørdt, ad taka Helming inn i fyrstu, og bijda fullann Tijma epter Verkanenne, og jafnvel leingur. Finnest hinum Siwka, sem Velgiu-Snertur kome, og ei verdur meira af, tekur hann hinn annann Helming Osekin. 10. Grana af Uppsolu Vijnsteinenum sumum þikia offvæsen ad fyrerskrifa til einnrar Inntøku, þar sterk Portion er 6. Gr. Enn þegar Madur inntekur þad, epter þeim Maata sem aadur er sagdur, er hann Ohultur, enn Madur ætijd vissare um, ad hafa noog, og geta temprad Inntøkuna sem hagannlegast: Vijrleikenn er og hinn same; Og þannenn brwka þad Franſker optlega, og kalla Lavage.

hrooſad þeſſu, og ſtundum hinu þar til brwkad-ra Medala; Hvar um̃ eg vil ſem minnſt tala, þvi þau betſtu Medol mættu leinge vel miſſa ſitt retta Hroos, þar Dœruſkapur og Hiatrw til-einkade ecke Bwkhreinſunar-Medolunum þeirra goodu Verkan, heldur nidurſkafenne Hofudſkiel af myrdtum Mønnum, ſem þar vid var bland-ad, og allur Kraptur i fyrſtu eignadur. Enn þeir betur adgiættu, hvar i hinn meſte Kraptur Medalanna var foolgenn, ſettu þeſſa Hiatrw til Siidu. Þeir Enaelſku Læknarar hafa leinge hrooſad fylgiande Dupte, til ad hindra Icktſyke, hvert þeir eitt ſinn i hverium Maan-ude brwka læta, og inngefa i Vijne:

Recip. Radix Turpethi,
Hermodactyli,
Jalappæ ana grana V.
Tartari vitriolati Scrupulum I.

Þetta þenar til ad hreinſa Magann einuſinne; Enn þad være ſumum ei ofmiked hier a Lande, þo hier af væru tekner 2. Skamtar, [Portioner] annar ad Kvøllde og an̄ar ad Morgne. Samt ſem ædur vil eg enn nu itreka þad ædur ſagdt heſe: Til ad hindra Icktſyke, meiga eingen ſterk og hord Bwk-hreinſande Medol brwkaſt, þvi þau veikia ſo vel Maganns ſem heila Lijkam-anns Krapta. Hin hæguſtu Laxeer Medol þar a moot, ſem minnſt veikia Magann, giora mikla og ſtoora Nytſemd, og kunna med betſta

Averte

Averte ad brwkast hvad epter annad, þangad til hinn Siwke finnur merkelega Betrun, hvar til Bechers Pillur, [ Pillulæ Becheri ] Stahls og Hoffmanns kunna optlega ad brwkast med goodum Notum. Opt er Rhabarbara med einu medal Sallte fierdeiles naudsynleg; Optlega maa Madur fyrerbiooda hennar Brwkun, og hun æ, so vel i þessu sem ødrum Tilfellum, þar aldrei ad gefast, hvar Saurende epter æ verda þurr og hørd: Og þetta hid sama eiga Menn ad adgiæta, vid øll ønnur Bwk-hreinsande Medøl. Hr. Tissot hefur raaded morgum ad brwka fylgiande Medal, til ad hindra Icktsyke: Tak Jalappa Root, Sennes Blød, Vijnsteins Riooma, af hveriu fyrer sig 20. Gr. giør af fijnt Dupt, og tak inn snemma Morguns. Madur kann og med goodum Notum ad brwka fylgiande Pillur:

Recip. Extract. Elleb. nigri. Scrup. I.
Ref. Jalapp. Gr. X.
Mercurii dulcis. Gr. VIII.
m. f. c. essent absint. p. pond.
Gr. II. sem. lycopodii consp.

Af þessu takest 10. Pillur ad Kvolde vid Hatta-Tijma, og 10. ad Morgne, af þeim sem miked þurfa, hiner kunna ad nægiast med minna. Mier hefur ætijd, hardtnær hia allslags Foolke, vel luckast med Aqvam laxativam Viennensem, 4. edur 6. Lod, hvar til eg ætijd blanda

einhveriu Sallte, so sem Sale Polychresto Anglico, edur þvi lijkum 2. edur 3. Qvintinum, enn þad er Fatækum ofdijrt ad kaupa.

§. 25.

Hins þridia slags Medøl, er eg umgat, §. 21. brwkast ættu, til ad hindra Icktsyke, hafa þaa Verkan i mannlegum Lijkama, ad þau auka Maganns Melltingar Krapt, hanns og Þarmanna, motum peristalticum, uppleysa og þynna Slijmed, so vel sem hin groofu Saurende, og færa þetta allt samann wt af Lijkamanum fyrer edlelega Raas, so ad Saurenden eru nær þvi naatturleg, edur so sem þau eiga ad vera i þvi heilbrygdasta Stande, bæde ad Voxtum og Herdslu, hvar vid Hægdernar verda fierdeiles þægar. Auke Madur Inngifter af þesshaattar Medølum, eykst og so Stoolgaangurenn, fyrer utann alla Verke og Oroa: Þau rijsa ei so hardt i Magann, ad þaangad fliote miøg miked þeirra Safta, er burthreinsast meiga; Og hier af verdur Lijsed aldrei fyrer þeirra Brwkun tilstoppad, nema hvar Inniblen eru maattlijtel, og þaa aa einn Lækner ad blanda samann vid þau nockru, er Magann bæde styrker og vermer, og þannenn eru þau øllum þenannleg, og i flestollum Siwkdoomum brwkud, annadhvert alleina, edur aa undann

Uppsölu og Brwk-hreinsande Medolum, velfleſtum til ſtoorra Nota.

§. 26.

Medal hvilijkra Læknisdooma, forþiena Swrbrunnar edur Ölkeldur vorar hid ædſta Sæte, af hvorium vier hofum ad viiſu Guds Gaafu hier a Lande, ef Menn viiſu ad færa ſier þær i Nyt; Enn þar til vantar nœkvæmar ad ranſaka þeirra Eigennlegleika, enn hiingad til ſked er. Jafnvel þo Menn, af Saal. Vice Løgmanns Eggerts Olafs Sonar, og Land Phyſici Biarna Pauls Sonar giørdre Proofun, og nœkvæmre Under-rettingu, i Reiſunne yfir Island, nockurn Part med Viſſu ſegia kunne, ad Raudamels Swrbrunur, edur hanns Vatn, være hier til þenanlegt, ef med goodre Adgiætſlu brwkad være. (a) Siaa þeirrar Islendſku Reiſu §. 462. 464.

§. 27.

Þau almennu Digeſtiva, edur Matar-Mellt-

(a) Sama er ad ſegia um ſuma þa Brunna, er i Hriiſa-Lande finnaſt, millum Vallna, Plaatz og Maafahliidar, innann Snæfells-Siiſlu, hveria ſiaalfur adgiætt hefe, Sumared 1775.

Melltingar Medøl, er hier brwkast kunna, annadhvert alleina, edur med nockru Magastyrkiande, (§. 25.) epter hinns Siwka Asigkomulage, eru: Sal seignette, af hveriu i Vatne uppleistu, I. Qvintin takast kann Kvolld og Morgna: Edur Flores salis ammoniaci, hvar af inngefen sieu Grana 20. Edur Cremor tartari, (Vijnsteins Rioome) af hverium Inngiften er Grana 30. Edur tak af Sale digestivo, tilbwnu epter þvi nija dispensatorio Danska, 20. Grana þrisvar a Dag. (a) Vite Madur ad Inniblen sieu Krapta-lijtel, so þau hier hiaa styrkia þurfe, blandar Madur samann vid hvert af þessum Sallt-Tegundum, sem brwkad er, þridia Part af smaatt steittre Radice Ari, (Arons Root) Serpentaria virginiana, (Høggorms Urt) edur einhveriu odru, sem Inniblen vermer og styrker. Enn Inniblen eru viidast hvar Maatt-minne enn vera byriar, hiaa þeim Manneskium, er hafa hardann Vallgang, og hverra Saurende eru bæde hord og lijtel, yfir hveriu Foolk plagar furdannlega ad þegia hier a Lande, þo epter sie grenslast,

(a) Brennesteins Bloomstur [ Flores sulphuris ] eru hier og eitt agiætt Medal, sieu af þeim inngefnar 3. Theeskeidar a Dag, sijn i hvert sinn, i Misu Vatne edur Graut, er þar hia Odijrt og þægt Medal.

ast, sier-til Obœtannlegs Skada, margur hver, er miked ordugt eiga med þvilijka nœtturlega Hægd, an hverrar eingenn kann leinge heil- brygdur ad vera.

§. 28.

Eitt Medal er enn nu til Baka, hveriu marger ypparleger Menn sameigennlega hroosa, til ad hindra Icktsyke. Mead rœdlagde þad öllum sijnum Siwklingum, og sa Odaud- lege Boerhave gaf Regluna wt, epter hverre þad skylde brwkast. Þad kostar ad sönnu ecke mikla Peninga, enn er þo eige alltijd i sialfs Valde ad brwka, Heilsunne til gooda, og ept- er rettu Nœtturunnar Lögmœle, allra sijdst oss, Innbyggiurum þessara kölldu Nordur-Landa, hvar eg hygg lœngt fleire plœgest med Lidavei- ke, og sier i Lage Miadmaverk, heldur enn i þeim heitare Londum, þegar rett er adgiætt, þo hverke drecke þeir Most, Öl, edur þvilijkt ædur upptaled.

§. 29.

Þetta Medal er: Yduglega, og þar hiœ i Mœta, ad hrœra sinn Lijkama. Menn þurf- sa eige margra Vitna ad leita, til ad geta sied og þreifad a, hversu naudsynleg og Omissande mœtuleg Hrœring sie: Boondenn og Vinnu- madur-

madurenn, sem veniast fraa Ungdoom jafnre og þægre Land-Vinnu, eru hiner heilbrygdustu til Elle Ara: Þeir kunna eins vel ad taka i moote Illvidrenu, Froste og Hriidum, sem hinum fagra Morgunrodanns Vind-Blæ, aan þess ad veikiast þar af. Vid þeirra maatulega Erfide verda þeir sem Milo: Þoott þeir i fyrstu, þaa þeir tilreyna, naumlega kunne ad lopta einum Kaalfe, geta þeir siidann bored einn Uxa. Blooded i þeirra Ædum, sem vid Vodvanna Krapt er aagiætlega tilbwed, þreynger sier til Blood-Keranna ytstu Enda, hvar þad leiptrar i gegnum þaa fogru og hreinu Hwd, sem aa Dianæ fordum i Augum Acteonis. Hiartad slær þar vel og hraustlega i heilbrygdu Briooste. Og liika sem Liifs Hræringarnar aavinna so miked, vid jafna og maatulega Liikamans Hræringu, so taka og þær naatturlegu Saafur þar Hlut i: Magenn mellter Fæduna, hvad hord sem hun er, aan þess Eignar-Madurenn vite þar af: Liikamanns naatturlege Dampe hindrast ecke so audveldlega aa þessum sem odrum, þvi þeirra sterku og vel æfdu Liifs Kraptar vidhallda honum. I einu Orde ad segia: Avexter af maatulegu og jofnu Erfide þreyngia i gegnum Liikamann allann, og gefa honum þviliika Naatturu, sem nærst gengur vorra Forfedra. Og hier fyrer er þad meira enn Orden toom, ad Menn telia þviliika Hræringu medal hinna bet-

stu

ſtu Medala, til ad hindra, og jafnvel um̃ſlya Jcktſyke.

§. 30.

Þad er ecke lijted eitt, ad ſæ þvilijk Giæde af ſo Odijru Medale, ſem ſtrax var taled; Enn þar i er Hofudpooſturenn ſoolgenn, ad vita rett ad færa ſier þad i Nyt. Boerhave gefur Moñum þæ Reglu, þar ed hann ſeger: Madur ſkule hræra ſig, inn til þeſs hann ſvitne vel, og finne til þægelegs Lwa. Ordſoken er ſw, ad bæde hann og adrer hafa giætt þeſs, ad þeir Menn, ſem vaner eru til ad hlaupa æ þwngt og ſtrængt Erfide, edur til þeſs eru hafder fræ Ungdoome med mikelle Akefd, verda offlioott mooder, ſtirder og ablvana: Ei Olijker Heſtunum, hverra Æſku Ar eru ſtutt, þæ þeir eru yfred ſterker. Þeſſer næ ſkialdann einum hæum Alldre: Þeir eiga ei Koſt æ, ad ſkipa ſijnum Lijkomum ad hvijla ſig, epter ad þeir, vid ofur ſterkt Erfide, hafa þvijngad þæ, længt yfir þeirra Krapta: Þeirra ſkiælfande Fætur bera ſkialdann leinge Lijkamann: Þeir næ ſtundum 60. Arum, enn eru þo allt laungu ædur ordner veiker og vanfærer. Dæmen eru noog, og allt of auglioos hier i Lande vid Siooar Sijdu, þar hord og mikel Sioo-Sookn er; Enn ſoddann Foolk neydeſt optlega til ad gænga længt fram̃ yfir ſijna Krapta; Og þad verſt er: Jllur

Illur Adbwnadur bætest optast þar ofann a, sem hæglega ordsakar Icktsyke, og morg onnur Vondsku Tilfelle, hver sijdann, sem illur Erfda Hlute, fædast og þroskast, i þessara Siwklinga epterlaatnu Sæde, og plantast þannig fraa Kyne til Kyns, þegar annars Siwkra Foreldra Bornum verdur so laangra Lijfdaga audeb. (Conf. Afhandlingarennar um þann Isl. Skirbiwg, §. 31. Sijdu 45. 46.) Um þetta allt vil eg þvi minna tala, þess augliosara þad er.

## §. 31.

So er nu umgeten Boerhaves Regla ollum naudsynleg, sem epter henne kunna ad lifa; Og af aadursogdu flytur þad, ad eckert Erfide og eingen sw Hræring, sie Monnum holl edur þenannleg, sem skedur i einum ofur Haste, og laangt yfirgengur naatturlega Krapta: Hvad hun heiter Blooded of fliott: Lijkamenn svitnar: þar vid um of: Hun þreyter og ablvana giorer eina Manneskiu, i stadenn fyrer þad hun skylde styrkia hana: Hun fordiarfar Magans Melltingar Krapt, [ Vim digestivam ] og trublar Bloodsens retta Rennsle i gegnum Æwngun. Hier af kunna vorer miklu Reid-Menn ad sia, hvers þeir hafe ad vænta sier, af hastarlegum Þeisings Reidum, og hvar fyrer marger hinna miklu Reid-Hrooka plaagast med

Miadma-

Miadmaverk. Þannenn spiller Vanbrwk-unnen, einum i sialfum sier goodum Hlut, sem eru maatulegar Reidar a Þægum Hestum. (a)

§. 32.

So naudsynlegt sem þad er, ad vita uppa hvern Maata Madur kann ad hindra Icktsyke, so Omissande er og hitt, ad vita hversu Menn kunna ad lækna, stytta og lina hennar Tilfelle, þa hun virkelega er komen, hvar um̃ eg nu hier epter tala vil.

§. 33.

Hid allra fyrsta Madur finnur Hofud-Verk, Matar-Olyst, hardann Stoolgaang, edur hver onnur adur talen Tilfelle, sem plaga ad fylgia Icktsyke; . Þa er þad einasta og retta Medal: Annadhvert ad taka Uppsolu edur Bwk-hreinsande [purgans] Medol, (Sia §. 21. it. not. a) Og þad sijdara jafnvel optar enn tvisvar edur þrisvar, epter þvi sem Menn sia hagannlegast. Og þeir giordu vel, sem strax i fyrstu tækiu eitt gott Uppsolu Medal, og þar epter Bwk-hreinsande.

D §. 34.

(a) Sia þad þar um̃ er talad i Afhandlingunne um̃ þan̄ Isl. Skirbiwg, Sijdu 49. not. g.

§. 34.

Bæde um̃ Uppsølu og Bwk-hreinsande Medøl er talad ꝏdur, (§. §. 23. og 24.) hver hier og brwkast eiga ꝏ sama Hꝏtt og þar seger. Edur tak af Uppsølu Vijnsteine 6. Grana, smellt þad i hꝏlfum Pela af volgu Vatne, og dreck þad i einu, og þꝏ þetta fer ad verka, dreckest ysirfliootannlegt volgt Vatn. Hier hiꝏ mꝏ vel adgiæta, þad sagdt hefe, §. 19. um̃ þau Tilfelle, sem banna Mønnum ad gefa þviliik Medøl. Bwk-hreinsande Medøl kann hver ad velia, epter þvi sem hagannlegast vera kann, hvers eins Siwklings Asigkomulage, so sem eitthvert af ꝏdurnefndum, §. §. 23. 24.

Edur tak: Rhabarbaræ, Grana 20.
Sennesblød, Grana 15.
Tartari vitriolati, Gr. 20.

Þetta steytest vel smꝏtt, blandest so samann, skiptest i tvo jafna Parta, hvar af sꝏ eine takest ad Kvølde Dags under Svefn, og hinn sneꝏ̃a Morguns. (a) Edur tak einn Skamt af Pillulis

(a) Þetta er ysred gott feitum og Kvap-holldꝏ Manneskium.

Pillulis de Colochynthide cum Aloë, (a) Edur tak 2. Lod Tamarinder, 1. Pela Vatns, 1. Qvintin Salltpeturs, siood litla Sudu, bæt þar vid 4. Lodum af Manna, og þa þad er jafnþunnt orded, sija þad, og dreck i einu. Þetta Medal er hardtnær øllum Mønnum þægelegt, og kann i mørgum Tilfellum ad brwkast, enn er nockud dijrt. Eg mæ enn nu minnast þess ædur hefe æviked: Þeir ed geta feyppt Aqvam Wiennensem laxativam, hafa sier þar af mikels goods ad vænta, og aldrei hefur mier nema vel luckast med þad Medal, sierdeiles hiæ veikum og Magn-þrota Mañeskium. Þad kann, eins og hier fyrer framann skrifadur Dryckur, ad brwkast þrisvar edur fioorumsinnum i Rød, nefnelega hvern ættunda Dag.

§. 35.

Sæ Mæte er eg strax umtalade, ad taka fyrst Uppsolu Medal, er ad vijsu þenannlegur i øllum Tegundum Jcktsyke, enn þo sierdeiles i þrælæatum Miadma-Verk. Madur mæ opt med Undran sia uppæ þad, hvad miked af margslags Ohreinendum kemur fræ soddann Foolke, vid good og vel innrettud hreinsande

 Medol;

(a) Sterkare Personur, sem illar Hægder hafa til Baksins, kunna ad brwka Pillurnar.

Medol; Og nema þeir yduglega hreinse Innibløn, jafnvel a hvers Manadar edur 8. Vikna Freste, i þad minnsta, og þar i millum vidhalde goodum og þægum Vallgaunge, er þeirra Doinur til reidu, ad griipa þa, þegar minnst varer. Þad er opt, nær þeir eru lagdster, sem hafa Miadma-Verk, ad þeir taka skialdann, Maattleysis vegna, viliuger hreinsande Medol, hvar fyrer Madur maa optlega gefa þeim þau Dvitande; (a) Enn þaa þeir finna Avoxtenn, bidia þeir tiidum um hin somu aptur, hvar um Madur skal þeim ecke neita.

§. 36.

Med þvi hier hverke eiga nie meiga brwkast onnur Medol, enn þau sem eru hæg og lin, þaa kann þad margopt ad bera vid, ad ein Innaist verke ecke hiaa hinum Siwku; Og i þvi Tilfelle skulu Menn ætiid vera vidbwner, ad styrkia Inntokunnar Verkun med einne goodre Stoolpiipu, sem tilbwen sie uppaa fylgiande Maata:

(a) Þeir eru optlega nockud einrader, sem þviingast af Icktsyke, hvar um Hr. Allen talar, a þennann Hatt: At qvi podagricus est, vis sui arbitrii, præceptis medicis non auscultat, sed genio plerumq; in valetudinis incommodum indulget.

Mœta: Tak 3. Pela Vatns, einn lijtenn Hnefa af Sallte, og blanda þarvid, lœt þetta hitna til samanns, og þœ Sallted er vel runned, sie þar vid bætt tveim edur þrem Spoonum af vel hreinsudu brœddu Smiore. Edur siood gooda Handfylle af hreinsudum, vel þurkudum og skornum Niooia-Rootum, og siood þær i Vatne, œsamt Salltenu, litla Sudu og harda, og set þar med Stoolpijpuna. Edur tak 2. gooda Hnefa af Dialth Root, siood þetta lijted, og brwka sem œdur seger. Madur kann, i stadenn fyrer Smiored, ad uppleysa i Vatnenu 2. Qvintin af Hand-Sœpu. (a) Og þetta er nu þad Menn œvallt giora eiga, i Uppbyriun Icktsykennar Ahlaupa.

§. 37.

Hier hiœ er þo vel adgiœtande, ad hafe hinn Siwke mikenn Hofudverk, og megnann

 Hita,

(a) Hier af kunna Menn ad læra, og ecke siidst vorar Lioosmœdur, ad tilbwa og brwka Stoolpijpu, uppœ hinn betsta og einfaldasta Maata, hver i morgum Tilfellum er ysred naudsynleg, og hefur opt hiœlpad hinum Siwku frœ Daudanum, eige siidst þeim Konum er fæda skulu, og eingar edur litlar Hægder geta haft til Baks nie Kvidar, hvad optlega hefur giordt Fædinguna hreint Omogulega, enn œvallt harda og langsama.

Hita, i ollum Lijkamanum, og sie Blooded miog Oroolegt, þaa er eingum raadlegt, ad taka mædur umtolud Bwk-hreinsande Medol; J þvi Tilfelle er betra ad setia heldur Stoolpijpu, æ hverium Dege einusinne, og verke þad lijted, þaa tvisvar, edur optar ef Þorf krefur. Þaa er og harla naudsynleg Bloodtaka, sem optar enn einusinne edur tvisvar maa itrekast, nema Bloodsins Orooe, [Congasmus sanguinis,] og Hitenn i Lijkamanum, mijnke vid hina fyrstu edur adra Bloodtoku, þaa er Ohætt ad laata blæda 3. edur 4. Thee-Vatns Bolla. Hier hiaa takest 3. Lod af hreinsudum Vijnsteine, þeim sie skipt i 12. jafna Parta; hvar af hinn Siwke take 2. edur 3. a Dag, i volgre Misu, hveria hann alleina drecka skal, aan þess ad borda nockurn annann Mat, medann Siwkdoomurenn er sem mestur. Edur tak 4. Lod Bigg edur Hafra Grioona, siood þau i hælfum odrum Potte Vatns, gooda Grautar Sudu, med 2. Qvintinum af Salltpetre sija sijdann Grioonen fraa, og blanda þar samann vid tveim edur þrem Lodum af Hunaange, og tveim Matspoonum af Edike; Af þessu drecke hinn Siwke 1. Pott med Dægre, i þad minnsta. Þesse Dryckur stiller Bloodsins Ofurhita og Vellu, sefar þar vid Þorsta og Verke, og styrker þar hiaa Lijkamann.

§. 38.

## §. 38.

Under eins og Madur verdur þess var, ad Hitenn og Hofudverkurenn minke, maa gefa eitt gott Bwk-hreinsande Medal, so sem Aqvam laxativam, (a) epter þvi sem aadur er sagdt.



(a) Med þvi hid Wienniska opnande Vatn, [Aqva laxativa Wiennensis] er so opt af mier næfnt hier ad framann, og eg Oska vilde, med Tijmanum yrded giæte eitt Hws-Medal, hia Efna-goodu Foolke, þeim til Þenusu er medþurfa kynnu; Þa vil eg hier segia, hversu þad tilbwast skule i Heima-Hwsum, þvi þar med verdur Kostnadurenn Helminge minne, og þar ed þad verdur ei vel flutt, sijdst i Hitum aa Sumar-Dag um langa Vegu, er þad ei aa Apotheke kaupande, nema af þeim naalæger eru.

R. Foliorum Sennæ electorum 3. Lod.
Passularum minorum 6. Qvintin.
Semen Coriandri 2. Qvintin.
Tartari solubilis 5. Qvintin.

Þetta skerest og steytest til samans, þar epter hellest yfir þad siodande Vatn, gooder 48. Matskæner, sijdann stande þad tilbyrgt Eyktar-Tijma, ad hverium lidnum þad siodest yfred hægt, so nidur seydest nær til Helminga: J Seydenu fraa sijndu, sem verda aa 28. til 30. Matspoona, uppleysest 10. Lod af Manna Calabrina. Þar epter sie þad einn sijad, og laated aa Flosku, vel

sagdt. Madur kann og ad taka goodann Hnefa af vel hreinsudum og þurrum Heimiles Nioola Rootum, 1. Lod Seidlitzer- edur Engelsks Sallts, siooda i einum Pela Vatns, sæta þad fræsijada Seyde med Hunange, og drecka. (a) Hvert af þessum hier greindum opn-

vel til buuded, skal þad geymast, þar til medþarf. Hin almeña Jñgist eru 8. Lod, edur Matspæner, af þvi alleina; Enn sie, sem ei sijdur fer i summum Tilfellum, þar vid blaudad 2. 3. eda 4. Qvintinum af Engelsku Sallte, mä Skamturenn vera, til allflestra, 4. Lod. Þetta Medal mä Ofeskiu brwka, ad afstodnum þwngum og hordum Siwkdoomium, til ad hreinsa Jnniblen fra skadlegu Siwkdoomsens Efne, er i þeim dylst awallt, og ordsakar annadhvert länga Krom, edur og annann Oaflatsamann Siwkdoom, og opt hvorttveggia, hvad Landar vorer þo offskialdañ adgiæta, þvi midur! og tapa þvi Heilsuñe. Nær þad, sem nu sagda eg, inntakast skal, er gott ad taka heitt Vatn i Skäl, läta þar ä fliota Thee-Bolla, og i honum þetta opnande Vatn, hvar af þadvolgnar, og verdur þægara Jnntoku. J Stijblun Jnniblanna, Lifrar, Milltes, Maga og Ristil-Kersis, er þad sierdeiles þægt, gott og Ohult Medal, samt ollum Heilsu-linum hendtugt.

(a) Þeir, hverium ädur talenn opnande Dryckur enn nu er osdijr, take 1. Lod Sennæ-Blada, 1. Lod Seidlitzer Sallt, og siode i einum Pela Vatns litla Stund, sije sijdann, og blande vid 1. Lode

opnande og hreinſande Medolum, ſem hinn Siwke brwkar, ſkal hann taka þriſvar edur 4. ſinnum, þridia edur fioorda hvern Dag, ſo Inniblen hreinſeſt vel fraa ollum Oklærendum og Forſtoppun.

§. 39.

Þaa Icktſykennar Tilfelle eru ſem bræd-uſt, og hinn Siwke Oroolegaſtur, hafa nockrer griped til Svefn-giorande Medala, hverium varla verdur verra funded i þeſſum Siwkdoome, þar þau auka hanns Ordſaker; Og feſte hinn Siwke Svefn, kippeſt hann under eins ſam-ann, og vaknar med tvofaldre Pinaningu, hvers

D 5 vegna

1. Lode af Hunangе, ef til er, og drecke i einu. Vel þurkadar aa Vor- edur Hauſt-Tijma upp-grafnar Heimilis-Nioola-Rætur, ſkornar og i Vatne ſodnar med litlu Hveite-Sallte, giøra hier og ælgiæta Penuſtu, ſie þeirra Seyde dag-lega brwkad, þar til aunægiannlega verkar; Og Þannenn hefe eg þær optlega med hondlad, med ælgiætum Averte, i Icktſyke, Gulu, [Ictero flavo] Kol-Gulu, [Ictero nigro] Boolgu og Stijbln Liſrar og Milltes, og nær Magenn hefur mellt illa Fæduna; Enn i tveim ſijdurſtu Tilfellum, hefe eg, aſamt Nioola Rootunum, brwkad annadhvert Pridiung edur Helming af Vallhumle; Pad er og ælgiætt i Blood-Uppgange, og Gyllene-Ædarennar Tilfellum. ꝛc.

vegna þau eru nu af mørgum fyrerboden, ad brwka vid Icktsiwka. (a)

§. 40.

Epter þad vid hinn Siwka hefur so vered giørdt sem sagdt hefe, i Uppbyriun og Fram̄gange þessa Siwkdooms, og Menn viist vita, ad Innibleu eru frij fra øllum skadlegum Ohreinendum, eiga Menn ad hiælpa hinum Siwka til ad svitna, hvad ed ske kann med tvennu moote, annadhvert med innvortis edur wtvortis Medølum.

§. 41.

Þau Medøl, sem hier eru innvortis hin betstu

(a) Framar hier um̄ mæ lesa Hr. Tissot, Junker, Hr. von Haen, med fleirum ødrum; Þo gefast þau Tilfelle i Icktsyke, hvar Osekiu mæ, med goodre Greind, hin Ohultustu Svefn-giørande Medøl brwka. Siæ §. 15. Hvar fyrer Reglan er ecke øldungis fortakslaust takande. §. 41. Enn saker Ogiætenna, Illviliadra og Heimskra, vil eg sem minnst tala um̄ vandasøm Medøl, fyrer hverra Val og Medferd einum Æfdum og Giætnum er trwande, enn ei Fakunnande og Oadgiætnum, hverra Vane er, eitt Medal i øllum Tilfellum ad brwka, hafe þad annars reynst vel i særnu.

heitstu og Ohultustu, er ad drecka ysirflootannslegt af Vatne þvi Hylde-Bloomstur [Flores Sambuci] hafa vered i soden. (a) Hr. Tissot rædleggur ad taka 1. Gran af Kermes mineralis, og gefa það inn æ Kvold-Tijma under Svefn, i litlu Theriach. Og til ad auka þess Verkan enn nu meir, kunna Menn ad vefia utann um þann veika Lim Salvetu, edur einhveriu ødru Klæde, so sem niiuum blæum Prioonasaum, sem ædur er unded upp wr heitu Vatne, og þetta kann optlega ad itrekast, medann hinn Siwke svitnar. Øll ønnur Svita-Medol læt eg hier Onefnd, so sem þeirra innvortis Brwkun er miklu siidur ad treysta, enn hinna, er wtvortis frædraga Efne Icktsykennar gegnum Hwdena.

§. 42.

(a) Vilie Menn taka Hylde-Bloomstur eina Handfylle, 4. Matskeidar af Hunange, og 3. af goodu Viin-Edike, lata i Leyr-Pott, og hella ysir frekum Potte af siodande Vatne, hræra i, þar til Hunanged er runned, þekia siidann Pottenn, og lata standa til þess kooluar, siia siidann Urtena fræ, og drecka volgt, hefur Madur sier ægiæts Avaxtar ad vænta, bæde i þessum og ødrum Siwkdoomum, so sem Kvese, Hoosta og Landfarsoott; Er þvi betsta Svita-Medal eitt, ad taka hælfst Qvintin Theriach, 1. eda 2. Grana Kermes mineralis, blanda samann, og taka inn, enn drecka æepter strax taled hægiande Svita-Medal, 1. edur 2. Thee-Bolla i einu.

## §. 42.

Fremst i Flocke þeirra Medala, sem wtvortis hafa brwkud vered i Icktsyke; og giort hina stærstu Verkun, er Vax-Dwkur, edur grænt Vax-Tast, hvar med Menn yfirklæda þann lijdande Lim, a þeim Stad hvar Icktsyken situr, so ad sw verta haala Sijda falle sem þiettast verdur vid Hørunded. Med þvi Vax-Dwkuren er so þiettur, ad hañ lofar ecke Lijkamanns Dømpum burt ad fara fra Hørundenu, so setur hann Limenn, yfir hverium hann liggur, i miøg sterkann Svita, og hleiper þar margopt upp Blødrum, hveriar tijdum miked vægia; Enn Verknum og Pijnunne linar bæde flioott og vel, so hinn Siwke verdur annadhvert hreint heilbrygdur, edur bijr þar heil-leinge ad, hafe Lijkamenn adur, sem sagdt er, vered vel hreinsadur. Sa vijdfræge Hr. von Haen i Austur-Rijke, hroosar miked ad uppleysa Mastix i Spiritu Vini, og leggia vid sem Plaastur, hvad eg hefe reynt med sæmelegum Averte, a einum minna Lands-Manna, Utannlands. J einu litlu Skrife, sem wtgefed er ad Uppsølum i Svijarijke, verdur miked hroosad Oleo Bezoardico Wedelii, sem samann stendur af Mandel Oliu, og þar i ypplepstre Camphoru; Hvert eg þo eige get

meteð til Jafnaðar við aður talen Ægiætis Meðol, so sem hun aldrei kann að taka Jckt-sykennar Orðsok burtu. Hier næst maa telia Spansflugu-Plaastur, er Boerhave og Hr. von Haen so mikeð hroosa, hver a Miod-mena eður Þann veika Lim skal setiast, rett yfir Þaa saarustu Tilfinningu, Loosa-Stærð hinns Siwka: Þetta itrekest twisvar eður Þrisvar, epter Þorfum. Enn Það er hier við athug-ande, bæðe að Lijkamenn sie aður vel hrein-saður innvortis, og Þeir Þetta brwka, sieu eige feiter og linhollda, annars verður Ævoxturenn ecke epter Oskum. Brenne-eður Vallar-Sooley, [Ranunculus acris] er hier til alle eins Þenannleg, sem nockurn Tijma Spans-flugur, og Menn vita, að með henne voru ys-reð marger af Miadma-Verk læknaðer, a fyrre Tijmum, Þaa hun enn nu var sem Leynd-ardoomur brwkuð; Hvar um Hr. Allen wt-Þrickelega skrifað hefur. Mead, Tissot, og aðrer ypparleger Menn, hafa laateð setia Hænka neðann i Læreð, neðannverðt við Staðenn, Þar Verkurenn hefur vereð mestur. Menn kunna og að setia Baun i Læreð, inn-ann til fyrer ofann Knieð, eige sem Menn plaga að giora hier a Lande, með Þvi að giora Þar Opnun með Jaarne, heldur fyrer etande Með-ol, hver miklu betur draga Vessana að Stað-num og Baunenne, með Hita og Þrota, sem

lijtell

lijtell edur eingenn verdur epter Jœrned; Og þo er Hœnkenn betre enn Baunen. Nockrer hroosa ad ellta vel samann Kalk og Hunang, og leggia sem Plœstur vid. (a)

## §. 43.

Þar mikel Boolga og Prote er um Lida-mooten, sem opt skedur i Flugkveisu, er eige rœdlegt ad brwka œdur talen wtvortis Medol; Þar eru lœngt þenannlegre þvilijk, er draga og wtpressa þadann hreint Blood; Hvar til þeir i Japan brwka Nœlar, (b) med hverium þeir gagn-picka allann þann Stad, sem Boolg-an er; Enn adrer taka Horn-Blood, hvad ad vijsu er œgiætt, þar þvi verdur vid komed; Lijka

(a) Eg þeke læknad Mann, sem nu lifer a Alftane-se, er mestann Part Vetrar leiged hafde i O-þolande Pijnu og Verk, nedarlega i Hriggnum og Miødmenne, og til hvers mørg Medøl høfdu genged, med þvi ad setia ysred stoor Blood-Horn sem allra fastast a þa lijdande Stade, an þess ad høgga þar i eina Ben; Þa þau høfdu stadeð rwma 12. Tijma, fiellu þau sialf af, og under þau voru komnar Blødrur, fullar med Vatn, hveriar eg af klippte, og grædde so aptur.

(b) Sia Wilh. ten Rhyne, de Arthritide & acupunctura. Lond. 1683.

Lijka kunna Bloodsugur med goodum Notum ad setiast a þann hoolgna Stad, þar hinn Siwke ecke þoler Saarenda vegna Hornen, og eg efast ecke, ad þær mættu hier a Lande vard-veitast, so vel sem i Svijþiood.

§. 44.

Hr. Tissot seger, ad vorm Bod til Bourbon, Plombier og Achen, asamt odrum fleirum, giore optlega hina stærstu Verkun. Adrer, sem ecke hafa naad til soddann, hafa badad sig i heitu Mauke, og nockrer sett sig i heitt Hey, til ad svitna; hvad morgum hefur vel gefest. Þad er gaatulaust, ad Laugar vorar eru af Gude gefnar, til margfaldrar og stoorrar Þenustu, jafnvel i þessum Siwkdoom. Þvi sie hinn Icktsiwke vel hreinsadur innvortis, og sijdann badadur i Laugum vorum, þa, til þess er Tijme, og eingar adrar Kringumstædur banna, epter Laugena strax lagdur i gott Rwm, og þa inngefed Medaled, er §. 41. umtalar, munde slijk Adferd aan alls Efa, verda morgum odrum fremre, og a litlum Tijma, ollum temprande, svæfande og Blood-hreinsande Medolum meir meten. Saa naatturlege Vijsdoomur syner oss þad liooslega, ad Hitenn wtvijdkar alla Lijkame, so vel Kopar-Hnottenn, sem Kiot-Klumpenn: Og þar af kemur þad, ad

þau

þau smaau Ker edur Gaangveger, sem Moot-toku veita þeim Dompum, sem ad Lijkamanum ytvortis koma, og færa þaa inn i Blooded og Safternar, verda i Laugenne rymre enn aadur, geta þvi liwflega teked i moote Vatnsins allra fijnustu Portum, fært þaa inn i Lijkamena, og þannig þynnt og mykt þær Safter, er aadur voru of þickar, slijmfullar og skarpar. Einer-Bad og øll Urta-Bod, eru fierdeiles aagiæt, vildu Menn alleina brwka þau skinsamlega, og tilreida so Lijkamann under þau, sem hier ad framann seger.

§. 45.

Þetta kann ad vera noog sem nu hefe eg sagdt, til ad hindra, lina, stytta og lækna opt-nefndann Siwkdoom; Og þeir ed ecke læknast med hier greindum Medolum, munu ei heldur læknast þott eg fleire tilfærde. Eg hefi med Vilia, hier wtelaated og þegiande fram̃ hiaa gen-ged, þeim Medolum, vid hvorra Brwkun ein-hvor Vande og Adgiætsla er, so sem ad brenna med Moxa, glooande Iaarne, etc. Skad-leg Medol vil eg sem minnst um̃ tala; Þo med þvi þad er Vande Foolks hier aa Lande, ad bera Brennevijn aa allslags Verke hardtnær, og Spiritum Camphoræ, edur Camphoru Brennevijn, þar þad er til, verd eg ad minn-ast þar aa; Enn þetta giorer Verkenn i um̃-

toludum Siwkdoome miked þrælataň og fast-ann, þvi þad samann snerper og herder Hwdena, og jafnvel þvijngar Vessana til ad kasta sier a eitt annann Stad, sem opt er hinu fyrra meinlegra, og Menn hafa optlega reynt, ad Lidaverker hafa strax epter soddann Aburd, lagt hinn Siwka i Grofina. ( a ) Stundum hefur þar af komed Beinæta, sem Hr. Störk umskrifar, i hanns Biennio Medico, og Hr. Tissot stadfester. J Kaupenhafn bar þad vid eitt Sinn, þa eg var þar, ad ein Kona er biso til Oblatur, bar Brennevijn a þvilijkann Verk Mañs sijns, um Kvølded vid Hættatijma, og i þvi hun nere Mannenn med þeirre einu Hende, enn hieldt a Liooſinu i þeirre annare, fiell Skared nidur a Mannenn, kveikte i Brennevijnenu, hvort ed logade um heila Lered þar hun hafde æbored, og brennde Mañeñ, hvor sijdann var læknadur af Brunanum, og vard þar vid heill med øllu af sinne Veike. Vidlijka Tilfelle fortelur Hr. Tissot, og þar er vijst verdt ad leggia Merke til: So illt og Ovituꝛlegt sem Verked var i sialfu sier, ad bruka hier Brennevijn til Aburdar, ad so goodum Notum vard þad, nær Eldurenn fieck Yfirhondena, þvi hann hindrade þar under eins þad

E illa,

( a ) Hvar uppa Menn høfdu Dæmed a Hoolum i Hialltadal, 1763.

illa, Brennevijned gat wtrett, og wtrymde wr Holldenu Ordſøk Siwkdoomſins, med þvi ad draga ad Brunanum yfirflootanlega Veſſa, ſem ſijdann wtrunnu. Þad er eingenn fœheyrdur Hlutur, hverke. œ fyrre nie nijare Tijmum, ad Elldurenn, vel og vandlega brwkadur, gete lœknad vonda Siwkdooma; (a) Jafn-

(a) Med adſkiliannlegum Hlutum, œ imſum Stødum, og i imſum Tilfellum, brenndu þeir Gømlu þeirra Siwklinga: Þar til brwkudu þeir ſtundum Jarn, ſem hafde adſkiliannlegann Skapnad og Stærd, hvad ſiœ er i þeim Elld-gømlu Chirurgiſku Skrifum: Stundum adra Hlute, ſo ſem Svampa Tegunder, Ull, Hamp, Hør, og fleira þeſſu lijkt, hvar um framar mœ leſa Marc Aurel. Sever. i hanns Pyrothechnia Chirurgica. J Indiunum brenna þeir enn i Dag med Moxa, ſem fæſt i China og Japan, þad er Hyungur nockur, ſvipadur Jardar Catuns Tegund (er vier ſo køllum) ſem vex œ Grœvijder vorum, [Salice lanata,] vaxande wt wr Blødum Artemiſiæ, ſem Franſker kalla Armoiſe. Med þeſſum Hyung brenna þeir Foolk, ſem Egyptſker med Boomull ſinne, og Griſker med Svampa Kyne. Nockrer taka Artemiſiam latifoliam, medann hun enn nu er nij, og þurka leinge i Vinde, til þeſs Bløden verda øll ſamann ſkorpenn og gagnþurr, þœ ſteyta þeir þau vel, og nwa ſijdann millum Handa ſier, til þeſs allar Agner eru burt

Jafnvel þo eg hier ei ræde Almenninge til Þvi-
liÿks, sem Verkenu er Ovanur.

§. 46.

Eingu betre eru hier feit og bijtande Smyrsl, hverju sem hiner Gømlu hafa til þeirra ræded. (a) Hr. Tissot fortelur þar um eitt



burt nænar, þa verdur epter þesse Hyungur, sem er fierdeiles fiinn, Ofku-græur ad Lit, og undarlega Ellð-sæll. Hvad framar er ad lesa um þessa Moxam, hefur einna betst wtfært og algiætlega um skrifad ten Rhyne, in Tractatu de Arthritide, Pag. 86.

(a) Hvad siá mæ i Cælii Aurel. Lib. 5. Cap. 2. Pag. 565. De Articulorum Passione, Hvers Ord eg hier til Samanns fylgia læt: Oportebat enim, qvantum ad hanc, ut putant, rationem, omni tumori frigidas convenire materias. Igitur secundum passiones, ac tempora nos discretas aptamus, alii verò acopum ex Rana Rubea in Podagricis admirantur, alii Marini Vituli, alii pedes unxerunt, ex ejus tergo calciamenta facientes; alii viventem Beluam oleo coxerunt, alii Lupum, & specialiter unxionis genus hoc convenire probaverunt, &c.

eitt hryggelegt Dæme, af einne Konu, hverrav bæder Lærlegger, og sæ annar Handleggur brotnudu, af miøg lijtelle Hræringu i Rwmenu, epter þad æ hana var bored Brennesteins Balsam, Terpentin-Olíu blandad. ( a ) Soddann ætte Foolk ad taka til Jhugunar, og læra ad þeckia þann Hæska þar er vid, ad brwka Læknis Medol, æn goods Epterþæanka, edur eitt og hid sama i mørgum Tilfellum, sem Augum Manna lijk synast kuña. Hr. Tissot seger

( a ) Eg neita ei Hr. Tissot hafe hier rett fraskijrt, og Tilfelled vel adgiætt; Þo vil eg geta þess: Nær eingen good Næringar Saft færest til Beinanna, edur er i Lijkama einnar Manneskiu, sem opt skedur, heldur sallter, swrer og slijmfuller Vessar, sem eta Beinen i sundur, ordsaka i þeim Stijblu hid innra og ytra, og jafnvel Boolgu, hvar af Beinen verda uṁ stijder so fordiørfud, blaut og brothætt, ad þau vid minnstu Hræringu hrøcka i sundur. Sia Heinr. Meibomii dissertation de ossium constitutione naturali, & præternaturali. Og Wilh H. Valdschmitt, Diatr. de fracturis ossium, finè violenta causa externâ. J þeim Børnum, sem hier a Lande hafa haft þann Engelska Siwkdoom, [Rachitis,] og wr hønum daeid, hafa Beinen vered orden so blaut, sem blautasta Fisk-Skijde, og Aþreifingar allijk Svampe.

seger þar gefest Tegund Jckrſyke, sem eingen wtvortis Medol þole, og hardtnær allſlags Medol giøre verre; Og þad er ei Olijklegt, ad so vel af þeßum sem ødrum Siwkdoomum, gefest þær Tegunder, hveriar ei verda læknadar, so sem: Þar allt er komen Beinæta og Rotnan i Lidamootanna Bønd, hverra Hr. Störk getur; (a) Og i ſlijkum Tilfellum verdur Madur ad nægiaſt med, ad vardveita hinn veika Lim sem betſt fyrer Kulda, og innſveypa i blaaann Prioonaſaum edur Veipu. Þad er og ſtundum betra, ad Madur yfirgefe eina þolanlega Tilfinningu, ſierdeiles þar hun er a gømlum og veikum Manneſkium ſiœlf mieg hardhnæckud, heldur enn ad brwka þar til allt oſſterk Medol, sem audveldlega kunna ad wtſetta meira illt, enn hid fyrſta var.

§. 47.

J Stadenn fyrer øll feit Smyrſl, Oliur og þeßkyns, sem Foolk kann ad vilia brwka wtvortes, er mitt Raad þeir brwke hreina Tioru edur Bik, sem eckert er annad enn þad Bal-

 sam,

(a) Sia hanns Biennium Medicum, & Saviard. obſerv. Chirurg. it. Mr. Petit Mem. de l' Acad. royale des Science: 1722. & Jo. Ch. Heyne.

sam er rennur af Triam, hvor full eru med Karpix ( sem Foolk hier a Lande rannglega kallar Myrrhu ) þvi Menn hellda hun abor-enn, uppleyse og bleyte Efne Jcktsykennar. Thomas Bartholin seger þad um Bændurn-ar i Sælande, ad under eins og þeir finne til Jcktsyke, make þeir heila Footenn edur Hand-leggenn i Tioru edur Bike, i samfellda 14. Da-ga, hvar vid Verkurenn ecke einasta hverfe, helldur uppleysest þar vid þeir Hnwtar, hvoria Jcktsyken stundum setur a Lidamooten, og Li-merner verde friier fra henne, annadhvort alld-eiles, edur og i morg Ar. Þetta vita bæde Danster og Norster Matrosar til Skips, meistaralega ad brwka, og hafa nidur-tana Kadla fyrer Klwtenn, i hvorn þeir strwka Tio-runa. Þad er og bæde gott og miog tijdk-annlegt, vid adur umtoludum Hnwtum, ad halda Limunum sem þar med þvijngast, twisvar a Dag yfir heitu Vatne i Dampanum, og þar epter ad þurka þa med volgu Klæde, og nwa um leid wrtoku lipurt, og sijdann bera a Dialth Smyrsl. Madur kann og ad taka raudt edur blaatt Klæde, og leggia yfir Li-denn sem stijfur vill verda og Hnwtana, og laa-ta þar a driwpa hægt og hægt vel heitt Vatn i hvort Sinn epter Dampbaded, og þetta kall-ast Dropa-Bad, ( Tropfen-Bad, Dryp-pe-Bad ) med þvi sijdara aukast miked Krap-

tar þeß fyrra, og þau bæde kunna ad brwkast i Flugkveisu, vid boolgen Lidamoot, an Smyrslanna, hver eige skulu þar a berast

## §. 48.

Born og Unglingar fa margopt Verke, og so mikla Pijnu i sinn Lijkama, ad Madur maa varla vid þeim hræra. Þetta maa ei blinda Foolk, til ad medhondla slijkt, sem være þad Icktsyke; Þad kemur margopt af Ormum i Maganum, og læknast ad fullu, þa þeir eru burtdrifner, med tilhlijdelegum Medolum.

## §. 49.

Af ollu þvi, sem eg hefe hijngad til sagdt, siaa Menn, ad Maganns og Inniblanna Hreinsun og Vidretting til Krapta, eru einn Hofud-Poostur, sem a ad vera sierhvers þeß Augna-Mid, er hindra og lækna vill Icktsyke; Og ad Madur a so leinge ad halda afram med hverttveggia, þangad til hann er viß um, ad hafa naad sijnum retta Tilgange. Menn siaa og so, ad Madur þarf hier til eige ad vera bundenn vid eitt eda tvo Medol, heldur kunna þeir, er Vit til bera, ad wtvelia þau þeim betst þena þikia, og hægast og lettast er ad fa, hvar um wtþryckelega talad hefe. Madur kann epter

eigenn Velþocknan, ad velia hier til Uppsolu Medol, þegar hinns Siwka Asigkomulag þad leifer; Edur brwka Bwk-hreinsande Medol, og lꝏta sier nægia hin allra linustu og þægustu, Matenn melltande, sollt. Þar er og Magt ꝏ liggiande, ad Menn, epter Mꝏta hinna betstu Læknara, samt almennre Apgiætslu og Aviisan, blande þar vid Maga-styrkiande og vermande Medolum: Giœte og þess, eg epter Mead §. 9. tilfært hefe, um Maganns Asigkomulag, þꝏ Icktsykennar Efne giorer hann tilfinningarlijtenn og kalldann. Sꝏ mikle Madur giorde þad ecke ꝏn Ordsaka, ad ꝏminna og biooda ad innretta Lækningunna þar epter.

§. 50.

Þꝏ Icktsyken linast af sialfre sier, ꝏn inngefenna Medala, og bijr sig til Burtferdar, plagar slijkt ad ske med þrennu Moote. Stundum eykst sꝏ nꝏtturlege Afgꝏngur til Baks og Kvidar, verdur þꝏ Þvaged miog þickt, med miklu Boolusalle, [Sedimento,] sia §. 14. Þar med fylger hægur Dampe. Allt þetta eykst og þrooast, drecke Madur miked sterkt Thee, edur Sod af Hylde-Bloomstrum, [Floribus Sambuci,] Einer-Lime, [Summitatibus Ligni Juniperii,] edur þvi syrsta Bare, sem wtkemur ꝏ Fialldrapa vorum, [Turionibus Betulæ nanæ, Dverg-Biørk,] sem

bæde

bæde eykur Þvag, og Oformerktann Dampa, [Transspirationem insensibilem,] Stundum koma Smaa-Boolur nælægt þeim Stad, hvar Verkurenn var, og kunna ad vægia leinge, hvar til Madur styrker, med Dampa-og Dropa-Bødum, samt sterkum Dragplaastrum. Stundum endast hun med Ilsku-Meinum, i hverium ad er mikell Vogur; Stundum med Vondsku Akomum, bæde a Hondum og Footum, hvar under sem optast dylst Beinaata.

§. 51.

Þegar Icktsyken vill koma wt med Graftrar Veru, seist hun ad Handlegg edur Lære, &c. med Oþolande Piinu, sem eige siidst plaagar hinn Smoka a Nætur-Tiimanum, og hindrar hanns Svefn: Limurenn boolgnar allur, og þetta kann vara 3. edur 4. Vikur, so Aumingenn verdur þvi nær afsiinna. Þar epter rodnar Stadur saa, er mest liidur, odrum framar: I þeim sama verdur Verkurenn yfred saar, og klappande sem Slag-Æd, hvar vid Madur sem fyrst maa leggia bleytande og til Graftrar flijtande Medøl, so sem: Volgann þickann Miøl-edur Grioona-Graut med Hunaange, volgt steytt Hveite-Brand med Hunaange, bleytande og Greftre flijtande Urter, sem under þvi Nafne kaupast kunna hier a Apotheke: Lifia-Gras, steytt, og sem

Plaastur vidlagdt, er hier til ægiætt, somuleides Lif, jafnvel gamall kiæstur Hakall. So fliott sem verdur, og til Graftrar-Veru finnst, byriar ad opna þesse Mein, og medhondla sem vond Saar sieu, hvad og i Raun rettre ævallt er; Þvi kome þetta i Handleggenn, verdur Honden optastnær kreppt og visen edur hnijtt: Sama er ad segia um Lær og Foot. Vid þessu brwkest Lækningar, §. 47. taldar. Þar ad auk meiga þeim Siwka setiast optlega Stoolpijpur, jafnvel med Coloqvinter, hvad Listerus plagade ad giora i Miadma-Verk, og hvern 8. Dag inngefast §. 34. umtaladar Pillur.

Edur tak: Scammonii Grana 10.

Merc. dulcis ritè præparati gr. 6.

Sacchari albi Grana 12.

m. f. p. S. Dupt ad taka einusinne.

Hier fyrer utann dreckest miked, af Vatne þvi Heimiles-Nioola-Rætur hafa vered i sodnar, Hunaange blandad og litlum Salltpetre, edur almennu Sallte, sem svarar Theeskeid i hvern Pott Vatns.

§. 52.

Þad er optar hier a Lande, enn annarstadar þar til veit, ad Icktsyken endast med þvi, ad epter lææta bijtande Vessa a Fijngrunum, (a) Kniaanum og Taanum, hverier strax hlaupa

(a) Optast nær hefe eg sied þad byriast a fremsta Gom

hlaupa wt i Blodrum, sem opnast, og verda vond, um sig etande Saar, hver med stærstu Adgiætslu medhøndlast meiga, og eingannveg-enn fliootlega grædast; Hvar um Hr. Tissot rettelega aminner, þa hann um þvilijkt talar. (a) Þeir þvilijkar Meinsemder faa, og hiaalpast vilia, meiga lifa miked sparsamlega i Mat og Dryck!: Drecka ysirfliootanlegt Seyde af Skreppu-Root, [Radice Bardanæ,] med litlum Sallrpetre sodenne; Edur Heimiles-Nioola-Root, a sama Hatt tilreiddre, og litlu Hunange þar vid blandad, til Þægelegheita fyrer hinn Siwka. Þar hia hreinsest Inniblen hvern attunda Dag, med Pillunum §. 24. aaminnstu. Þar ad auk take þeir Veiku þrisvar a Dag 60. Dropa af Essentia Gummi Gvajaci, til ad halda Hægdunum til Baksins i goodu Stande, og drijfa vel Þvaged. Til Saaranna brwkast hendtugast Balsamisk

Goom Þumalfijngurs, edur Midlid, og med sama Moote hefur þad synt sig a Stoorutaanum, (Þumaltaanum) og eted sijdann Holld med Beine, Koggul af Koggle, þar til Fijngur og Tær hafa vered uppetnar; Þar epter hafa dotted Saar a Loofana edur Handarbøken, Kinnarnar, Alnbogana, Handar-Lidina, Knien, og a allann sama Hatt hefur Siwkdoomurenn Fæturnar wtleiked.

(a) Avis ou peuple sur sa Sante.

samiſt Medol, fierdeiles sieu þau faren ad elldaſt; Hvar um̃ betſt er Raad ad þiggia hiaa einum æſdum Lækner, enn eingum Landhlauparæ, er eckert veit af ſoddann, og kann þvi, i ſtadenn fyrer ad vilia bæta, merkelega fordiarfa þann Siwka.

§. 53.

Epterſkrifud Blanda [Mixtura] er i fleſtum þvilijkum Tilfellum rett þenannleg, ofann i Saaren boren aa Svampe, edur nidur roktu Lijne, sem þar i sie vætt, og yfir þau sagdt.

Tak: Aqva Florum Anthos 2. Lod.
Eſſ. Myrrhæ 2. Qvintin.
Olei Petræ L. Caryophyll. 1. Qv.

Blanda samann, og væt med þeſſum Dropum, annadhvert Svamp, edur nidur raked og fallega samannlagdt Lijn, og legg ofann i Saaren, under Plaaſtrana sem brwkaſt.

§. 54.

Beinaata ſw (§. §. 6. 51.) hier med fylger, nær Siwkdoomurenn maa i Toome vidleika, byriaſt optaſt nær aa Fijngrum og Taam, og etur einn Lid burt epter annañ; Wid hverre hier er ei onnur Raad, ad leggia þeim þvilijk Eymſle aa sier bera, enn leita til þeirra, er þeſskyns Mein vita rett ad medhondla, og Limuna af ad snijda, sem ei verda med odru Moote aa Lijkamanum vardveitter.

Til




# Til Lesarans.

So Almenningur vite, hvørs vænta mege af Lækninga Book Hr. Chirurgi Jons Peturs Sonar, hvorrar geted er i Formaalanum, þa hefur hann innsendt eptirfylgiande Registur, yfir þad hellsta sem hun inneheldur.

I. CAP.
Nockrar hinar hellstu Ordsaker til Siwkdooma Foolks a Islande.

II. CAP.
Nockrar enar hellstu Ordsaker er auka Siwkdooma Foolks hier a Lande.

III. CAP.
Um þad, hvørsu Men skule medhøndla Siwklinga, i hordum og hættulegum Siwkdoomum.

IV. CAP.
Um hina algengnustu Barna Siwkdooma hier a Lande.

Bwkhlaup, Barna.
Ofhardar Hægder Barna.
Innanntøkur Barna.
Uppkøst Barna.
Tannkoma Barna.

Orma

Ormar med Børnum, Nidurfalls Soott og Flog.
Þwngur Andardrættur og Hrygla Barna.
Maga-Hooſte Barna.
Andarteppu Hooſte.
Hiartaſpenning Barna [ Cardiogmus ]
Gula a Børnum.
Muñſvide og Muñboolur Barna [Aphtæ ]
Mioolkurſkorpa, Krefda, [ Cruſta lactea, Achores ]
Uppþornan Barna.
Sa Engelſke Siwkdoomur a Børnum.
Heilræde um̃ Barna-Fooſtur.
Kveiſa a uppvaxande Ungdoome.

## V. CAP.

## Kvennleger Siwkdoomar.

Mænada Hreinſun Kvenna.
J Oreglu komenn Klædaføll.
Klædaføll ſtem̃d af Kullde.
Klædaføll ſtem̃d af ofmiklu Bloode.
Klædaføll ſtem̃d af oſþicku Bloode.
Nær Klædaføll lokſins hætta.
Ofmikel Bloodlaat epter Barnburd.
Oſlijtel edur ſtem̃d Bloodlaat epter Barnb.
Hvijt Klædaføll.
Lettaſoott i Lærum.
Boolga i Kveña Briooſtum epter Barnb.
Jomfrwr Gula.

## VI. CAP.

Gylline = Æd stemd og sliootande, [ Hæmorrhoides cæcæ & apertæ ]
Nasa = Blood.
Kvef.
Hôfud = Verkur.
Hôfud = Sundle.
Hlustar = Verkur.
Augna = Verkur.
Augna = Boolga.
Augu Taar-mild.
Augna = Krijme, etc.
Kverka = Boolga.
Kverka = Mein.
Uf = Boolga.
Lwngna = Boolga.
Graftrar = Sullur i Lwngum.
Hooste. Blood = Hooste. Blood Uppgangur,
Landfar = Soott.
Tak.
Ama og hennar Tegunder [ Erysipelas ]
Ofhardur Vallgangur.
Afbende [ Tenesmus ]
Brioost = Svide. Hiart = Verkur.
Slagflood [ Apoplexia ]
Limafalls Soott.
Bwk = Hlaup.
Blood = Soott.
Lifrar = Flood [ Fluxus Hepaticus ]
Gula.
Klade.
Ovære.

## VII. CAP.

Sætt eitt um̄ nockra optlega tilfallande ɯtvortes Siwkdooma.



Ny Saar. Brune. Mared Hold.
Vond Saar. Atumein, edur so kalladur Krabbe.
Fijngurmein. Blood-Kijle.
Limer ef vr Lide gaanga. Beinbrot.
Kvidslit. Kaled Hold. Exle.
[Tumores cyftici tunicati]
Vørtur. Horn a Footum.

## VIII. CAP.

## Um Blood tøkur.

Uppsølu og Bwkhreinsande Medøl.
Stoolpijpu. Spans-Flugur. Sooley.
Haanka. Baun. Bloodhorn.
Nockud um Vigt og Mæler.





## Prent-Villur.

A Bladsijdu 20. Linu 28. les Kerkrings, Bl. 24. L. 10. l. annad. Bl. 36. L. 11. l. ofann. Bl. 54. L. 22. l. sijdann.

Haft fleira kunnad ypsirsiaast, umbidst goodfws Lesare ad lagfæra.



